(að trúa á) 92) Födurinn, Soninn og þann heilaga Anda, og kennið þeim

hans boðorðum. Her er þá sitt hvað að gjøra að lærisveini og kjenna. Svo er af þessu andsætt, bæði að leyfilegt er að skíra born, og líka hvørninn Postularnir skírðu svo fljótt uppá játninguna t. d. Post. g. b. 2, 37-41. 16, 14. 15. 30-33.

92) J nafni, eptir orðinu er það uppá nafn eður til nafns. Onoma þýðir að sønnu persónu, líka dýrð og hátign Post. g. b. 4, 12 Eph. 1, 21. Jóh. 12, 28. o. v. hvor merking her getur vel átt heima; en eins má standast, að straxtjeð orð hafi her enga serlega merkingu, heldur se einasta að-dragandi næsta orðs (circumscriptio) eins og Matth. 1, 21. Lúc. 1, 13. Post. g. b. 3, 16. Mal. 1, 14. 1 Cor. 1, 2. Opinb. b. 11, 13. o. v., hvar orðinu nafn, má sleppa, svo einkis ísaknar, og einasta setja hann eður þvílíkt fyrirnafn í staðinn; sjá 61 Skírúngar-grein. En að her á þessum stað megi í útleggíngunni sleppa sama orði, sanna Róm. 6, 3. Gal. 3, 27. 1 Cor. 1, 13. 15. 10, 2. hvørjar allar Ritníngar-greinir sýna að talsháttrinn, að skíra-st til einhvørs, ætíð merkir að skuldbinda sig með skírninni, að hlýða honum, dýrka hann, eður vera honum undirgefinn. Sjá og um yðrunar-skírn 48 Skíríngar-grein.

þeim ad breyta eptir øllu, sem eg hefi skipad ydur. y) Hvørr, sem trúir, og lætur skíra sig [93]), skal verda hólpinn, en hvørr, sem verdur vantrúadur, mun fyrirfarast [94]), en þeim sem taka þá trú [95]), skulu í mínum erindum fylgja þessi stórmerki: þeir munu útreka skadlega anda [96]), tala í þeim túngumálum, sem þeir hafa eigi ádur kunnad, taka upp eiturorma, og ef þeir drecka eitthvad banvænt, skal þeim ei verda meint af þvi.

[93]) Eptir grískri ordþýdíngu, getur meiníngin verid: lætur skíra sig.

[94]) Fyrir tjón edur straff brúkast ordid allvída t. d. 1 Cor. 11, 32. Jac. 5, 9. 2 Pet. 2, 6.

[95]) Her meinast bædi ad taka trú og trúa.

[96]) Meiníngin verdur her eptir þvi, hvørt púnkturinn, sem adskilur greinirnar, er settur fyri framan eda aptan ordin: í mínu nafni. Eg hefi her sett hann fyri aptan. Um ordid nafn, sem her þýdir umbod edur erindagjørdir vegna annars manns, sjá 46 og 61 skíríngar-greinir.

y) Marc. 16, 16 - 18.

því. Sjúkum mun batna, þegar þeir leggja hendur yfir þá z), og verið vissir um 97) að eg skal ætíð vera með yður (til hjálpar) allt 98) til þ:ss veröld endar.

a) Hér eptir lét hann Jakob sjá sig.

b) Þegar Jesús var búinn að sýna sig Lærisveinum sínum lifandi, eptir að hann hafði útstaðið písl sína, lát- ið þá með marghátt uðum sannfær- ingum 99) skoða sig í fjörutygi daga, og frædt þá um Guðs ríki, (skipaði hann)

97) Sjáið. Þetta orð brúkast stundum til að efa vissu um það, sem talað er t. d. 1 Mós. 6. 28, 15. Gal. 1, 10 Jac. 5, 4. Júd. v. 14 o. fl

98) Alla daga, Hebreskir brúka orðið dag þáfaldlega fyrir tíma t. d. Marc. 2, 1. Lúc. 2, 1. 17, 22. 19, 42. 1 Cor. 3, 13. o. fl.

99) Meiníngin er: hann ljet þá af margs- slags kjennimerkjum þeckja, að hann ept- ir útstaðna písl sína var aptur lífs orðinn.

z) Matth. 28, 20. a) 1 Cor. 15, 7.
b) Post.g.b. 1, 3 . 4.

hann) þeim ad safnast saman [100]), og bannadi [101]) ad fara burt frá Jerúsalem, heldur skyldu þeir bída eptir því, sem Fadirinn hefdi lofad [102]), og þeir af sér (Jesú) heyrt hefdu, sem var: c) Takid þid eptir
f því

[100]) Grífka ordid kemur hvorgi annarstadar fyrir í nýja Testamentinu, og getur merkt ad samankalla, safnast, vera med einhvorjum edur matast med honum; hvorjar allar merkíngar her gætu ad nockru leiti hvor fyrir sig átt vid. Þad er ei sjaldan, sem Ritníngin brúkar þann talsháttt ad gjøra, hvar þó meinast, ad skipa verkid t. d. 2 Sam. 12, 9. 1 Kóng. b. 19, 15. samanbornu vid 2 Kóng. b. 8 og 9 skoda her ad framan 35 skíríngar-gr.

[101]) Þad er hebreskur talsháttur, ad skipa ecki ad gjøra í stadinn fyrir ad banna t. d. Marc. 3, 12. 6, 8. Lúc. 5, 14. 8, 56. 9, 21. o. v.

[102]) Her er lofordid sett í stad fyrirheitna hlutarins, edur endíngar á lofordinu, eins og allvída finnst líkt í Ritníngunni t. d. Post. g. b. 13, 32. Gal. 3, 14. 2 Pet. 3, 4. 9. Ebr. 6, 12. 10, 36. o. v.

c) Lúc. 24, 49.

því [103]) ad eg ſkal ſenda ydur þad, ſem Fadir minn hefir lofad ydur [104]), en þér ſkulud vera kyrrir [105]) í Jerúſalem, þángad til þér verdid útbúnir [106]) med guddómlegum [107]) gáf-

103) Um þá merkíngu er ádur talad 14 ſkýríngar-grein.

104) Þetta fyrirheit vóru heilags Anda gáfur. Eſ. 44, 3. Jóel. 3, 1. Jóh. 14, 16. 26. 15, 26.

105) Gríſka ordid, ſem her brúkaſt, er lagad eptir því hebreſka, er bædi merkir ad ſitja, og búa edur vera ad ſtadaldri t. d. Poſt. g b. 18, 11. Matth. 4, 16. Lúc. 1, 79. o. ſl. en annarſtadar er þad í íslendſku Biblíunni rett útlagt t. d. 2 Móſ. b. 16, 29 Júdith. 5, 2. 4. (3. 5) 1 Maccab. 2, 30. (29.) Lúc 21, 35. o. v.

106) Þared klædin eru manni mjøg ſvo vidfeld, og bædi til ſkjóls og til ſkarts, er af þeim øll þeſſi þrefalda ſamlíkíng Ritníngunni dregin. Ad íklædaſt í ſtadinn fyrir, ad vera útbúinn med finnſt medal annara greina í 1 Chron. 12, 18. 2 Cor. 5, 3. Róm. 13, 12. 14. Eph. 4, 24. 1 Pet. 5, 5. (hvar rett er útlagt: haldid ydur faſt vid lítilætid).

107) Hæd og himin ſegiſt þráfaldlega í Ritníngunni í ſtadinn fyrir Gud Pſálm.

gáfum[108], d) Jóhannes skírdi ad sönnu med vatni, en þér skulud fá yfirgnæfanlegar[109] heilags Anda (kraptaverka gáfur)[110] innan fárra daga.

Eptir ad þeir vóru nú samankomnir, spurdu þeir hann: Herra! ætlar þú á þessari tíd ad uppretta Kóngs-veldid handa Jsrael? Hann svaradi þeim: Þad er eigi yckar, ad vita þá tíma eda



73, 9. Matth. 21, 25. Jóh. 3, 27. samanbornu vid 6, 44.

[108]) Kraptur kallast heilags Anda gáfur Post. g. b. 1, 8. Guds hjálp Post g. b 4, 7. 2 Cor. 6, 7 12, 9. og kraptaverka-gáfa, til hvørrar her einkum er litid Post. g. b. 6, 8. 10, 38. 1 Cor. 12, 10.

[109]) Skírdir verda, her er samlíking dregin af, ad sá sem skírn tók, huldist undir vatninu, þad var ei vid hann svarad Tit. 3, 6. Þannig finnst í grískum bókum, ad skíra almúgann í tekjum, skírdur í vømmum og skømmum o. fl.

[110]) Ordid brúkast annars þ. áfaldlega fyrir heilags Anda gáfur, svo sem Post. g. b. 6, 3. 4, 31. Jóh. 7, 39. 1 Cor. 14, 12.

d) Post. g. b. 1, 5 - 8.

rækifæri[111]), sem Fadirinn hefir ætlad ad hafa í sínu valdi. En þér munud fá kraptaverka gáfur þess heilaga anda, sem yfir ydur skal koma, og þá egid[112]) þid ad verda mér vitni í Jerúsalem, heilu Gydíngalandi og Samaría, og allt til veraldarinnar endimarka.

e) Þegar hann hafdi vid þá talad, fór hann med þeim út til[113]) Bethaníu,

[111]) Chronos er dvøl, tíminn sem lídur, edr þángad til hluturinn verdur Kairos er aptur á mót hentugur tími, færi á, sá retti tími til þess, sem þá á ad ske edur gjörast; hverr mismunur þessara orda hefir verid ossjaldan í ockar íslendsku Biblíu adgættur.

[112]) Stundum, eins og á þessum stad, er þad sagt muni verda, sem skiljast kann eins og skipan. Þó ei væri annad, þá er nóg til ad sanna þetta, ad tíu laga bodordin eru þannig ordud 2 Mós. 6. 20. Matth. 19, 18. Róm. 13, 9.

[113]) Gríska ordid heós gefur ei ætíd til kynna, ad lángt se farid, eins og allt til þýdir hjá oss.

e) Lúc. 24, 50. 51.

nía, þar upplypti hann sínum höndum, og mælti vel [114] fyrir þeim. En svo skédi medan hann þannig var ad lýsa gódu yfir þeim, leid hann upp í loptid, svo þeir horfdu á, og skildist vid þá, en f) ský kom á milli, svo þeir sáu hann ei lengur, og g) hann vard uppnuminn í himininn, hvar hann ríkir med Gudi [115].

f 3 h) En

114) Samanber Ebr. 11, 20. 21. En her innibindst ásamt med ad veita þad, sem gott er Post. g. b. 3, 26. Ebr. 6, 14.

115) Situr til Guds hægri handar; samlíkíngin er tekin af Kóngunum í fyrndinni, er sátu í hásæti sínu med veldissprotann í hægri hendi, og þá þeir leiddu son sinn til ríkis, settu hann ser vid hægri hönd, svo veldis-sprotinn var milli þeirra, edur vidlíkt, sem í beggja hendi. Meiningin í talshættinum þekkist af Psálm. 110, 1. samanbornu vid 1 Cor. 15, 25.

f) Post. g. b. 1, 9. g) Marc. 16, 19.

h) En þá þeir nú stódu, og vóru ad stara uppí himininn eptir honum, þar sem hann leid burt, þá bar svo til [116]), ad tveir menn í hvítum klædum stódu hjá þeim og sögdu: þid galilìskir menn! til hvörs standid þid þarna, og erud ad horfa uppí himininn? þessi Jesús, sem uppnuminn er frá ydur til himins, mun koma aptur, eins og þid sáud ad hann fór þángad. i) Þar eptir féllu Lærisveinarnir á kné, tilbádu hann og snéru med miklum fagnadi aptur til Jerúsalem. Þar vóru þeir ydulega í musterinu ad lofsýngja og þacka Gudi. k) En (eptir ad þeir hefdu medtekid heilags Anda gáfur) fóru þeir burt og prédikudu all-

[116]) Samanber 11 skýríngar-grein.

h) Post.g b. 1, 10. 11.
i) Lúc 24, 52. 53.
k) Marc 16, 20.

allstadar; var Drottinn med þeim samverkandi, og stadfesti lærdóminn med þeim teiknum, er hann lèt honum fylgja.

---

Þannig útlagt meina eg þá ad eckert finnist sjálfu sèr mótstædilegt í Gudspjallamannanna frásogn um Jesú upprisu. Þessi grundvollur vorra trúarbragda, er med svo prýdilegum lærdómi, hjartnæmt, nett og ljóslega í fyrrtédum Sigur-ljódum landsmonnum mínum fyrir sjónir settur, ad eg vona þeir verdi mèr samtaka í ad þacka Skáldinu fyrir ypparlegt verk, vel af hendi leyst.

Hann, frá hverjum' oll góð og oll fullkomin gjöf kémur, géfi ad þetta klára og skæra ord verdi þess syngendum, lesendum og heyrendum til æskilegustu sáluhjálpar nota!

Skálholti,
þann 27 April. 1796.

Hannes Finnsson Dr.

---

1. Psálm-

# 1. Psálmur.

Um Jesú dauda og upprísu. Ap. 1, 18.
Lagid er: Jesú! þín minníng mjøg sæt er.

O! Jesú, Jesú, Jesú minn! jeg hefi sjed blód-feril þinn, og hann rakid uppá kross-tréd, ofan sídan í grafar-bed.

2. Eg óttadist nær sál mín sá, Son Guds hángandi krossi á; fyrst eikin græna folnade, falla mundi hid þurra tré.

3. Um Drottins mikla ástar-rád, ei séck eg réttum skilníng' nád, fyrr enn Guds Andi andlegar, opnadi fyrir mér ritníngar.

4. Ad af Fødurnum útgenginn, og í heim kominn Lausnarinn, vid

A heim-

heiminn skilja ætti enn, og til
Fødursins víkja senn.

5. Hann kom til jardar himn-
um frá, hann píndist jørdu flatur
á, aptur af jørdu upprættur, í
jørdunni var greftradur.

6. Ur jørdu sídan upprisinn, af
jørd uppsteig í himininn; optar til
jardar eins ei fer, í skýjum him-
ins jørd dæmer.

7. Stærsta má þykja undur oss,
ad Lífs-høfdínginn deyr á kross;
andanna Drottins heilagt hold,
hvílir andvana í djúpri fold.

8. Angrast Jacob vid afspurn
þá, ad Jóseph lífs ei mundi sjá.
Pad er elskunnar einkenni, ad
syrgja vin sinn deyjandi.

9. Einka vin, Jesú! ertú minn,
eg má hriggjast vid dauda þinn,
mest af því eg hans orsøk er, af-
brot mín rédu bana þér.

10. Eilíf dauda-søk á mér lá; í
minn stad géckstú, Drottinn! þá
allt

allt straffid tókstú uppá þig, og dóst svo, Jesú! fyrir mig.

11. Hefdi vald daudans haldid þér, huggun af þínum dauda mér, í mínum dauda ei gjæfist, øll væri sáluhjálpin mist.

12. En nú er bana-broddurinn brotinn, og slitin her-fjøtrin, opnud døblissa, útdregnir úr heljar grøfju fángarnir.

13. Jesús Kristur upprisinn er! englar og menn þad votta mér. Lengur ecki þess lifanda, leitum í reit framlidinna.

14. Hans grøf leg-steinn afveltur er, og allur þúngi af hjarta mér. Ønd mín vidlifnar andlega, af trúar-sjón míns Lausnara.

15. Þín ásýnd, Drottinn! deyjande, dopur og føl á krossins tré, er nú skjærari sól ad sjá, sídan þú uppreist daudum frá.

16. Vort yfirbragd þótt afmindi, eitthvørt sinn daudans harm-

qvæli, í lífs upprisu verdum vér;
vor Jesú! aptur líkir þér.

17. Nær augun lykjast líkam-
ans, lítur vor sál þinn dírdar-
glans; hold þó jordunni hvíli í,
himnesk vegsemd er búin því.

18. Þú varst daudur, sjá! þú
lifer; þau sonnu kjør er fengin mér,
eg mun lifa (þó eg deyi), í Para-
dísar fognudi.

19. Lifandi Drottinn! léna mér,
hvert laung eda stutt mín hérvist
er, hlutdeild upprisu fyrstu ad fá,
fridar afgángi sídan ná.

20. J sameining med sjálfum
þér, sætasti Jesú! haldtu mér; á-
bati daudinn er mér þá, nær í
þér lifa og deyja má.

21. Unn mér svo, Drottinn!
athuga, upprisu þína og vídfrægja,
ad túnga mín og sinni sé, samstillt
lofgjørdar hljódfære!

22. Dírd sé þér, Jesú! deyjandi,
dírd sé þér í grøf hvílandi, æra sé
þér

þér uppríſandi, og eilíflega lifandi!

## 2. Pſálmur.

Jeſú uppriſa er vegſamleg, Ebr. 2, 7.

Lagid er: Sá ſitjáls vid lögmál fæddur er.

Af því vor Jeſús leiddi í ljós, líf frá daudum ríſandi, dírd, vald, kraptur, heidur og hrós, honum ber ævarandi.

2. Sterkur óvinur ſtríddi á, ſterk var hardneſkjan líka, mikid ſtrídid, enn meſtur ſá, er makt yfirvann ſlíka.

3. Vegſemd Davíd af verki bar, vard Golíath ſigradur, Jſaí ſonar íþróttar, Jſrael naut frelſadur.

4. Dætur Zions í danſinum, um Davíds Arfa ſýngi: dýrſtann vann ſigur á djöflinum, Drottinn vor Lífs-höfdíngi.

5. Vín-vid Egyptó fordum frá, flutti Gud herſkaranna, medur útréttum armlegg þá, eyddi hóp fjandmannanna.

6. Daudans þrældómi oss færdi frá, Frelsarinn allra manna, upprísandi nam nidurslá, nauda-port helvítanna.

7. Ofspúngir Mósis armlegger, ecki kunnu sér valda, Jesús því frægri øllum er, einn nam hann sigri halda.

8. Grafar vaktarar detta í dá, Drottinn jørdina hrærir, englar boda uppriſu þá, sem alla gledi nærir.

9. Forsmánar slitin slíkin er, farinn krossins nakleiki, hátignarskrúd vor Herra ber, frá holdsins numinn veiki.

10. Sinn þá Jósúa sigur vann, sólin kyrr standa rédi. Engann dag finnum, utan þann, á hvørjum svoddan skédi.

11. Betri dag finnum þó enn þann, þann Gud tilbúa rédi, á honum Jesú upprisan, í sigurs vegsemd skédi.

12. Sigur Drottins svo fræg-
ur finnst, ad fær hvørgi sinn maka,
sigrara engum svo til vinnst, sigur-
hróss vegsemd taka.

13. Líf og forklárun Lausnar-
ans, ljær fylling allra gjæda, um
hans sigur og æru-krans, ei, sem
ber, kann eg ræda.

14. Á himni, jörd og undir fold,
øll kné þeim Drottni hneigi, sem
úr jørdunni hóf sitt hold, hédan-
af deyr aldreji.

15. Þann, sem mig daudans
fjøtrum frá frelsti, med lífsins
hreysti, stærsta Sigrara' eg meta
má, makt hans og nád eg treysti.

16. Þó eg senn leggist lík í fold,
lúinn af hér-vistinni, lát, o Jesú!
mitt hljóta hold, hlutdeild í veg-
semd þinni!

## 3. Psálmur.

Jesú upprisa er grundvøllur trúar-
innar. 1 Cor. 15, 14.

Lagid er: Sælir eru þeim sjálfur Gud.

Húss undirstødur byggnir best, húsa forsmidir vanda, ad hvad heldst sem þar á byggest, óhvikullt kunni standa; opt steypi-regn og stormur megn, á stóru húsi dynur, best grundvallad, á bjargi þad, bilar samt ei né hrynur.

2. Andleg Guds bygging erum vér, og hús Drottins lifanda, traustur mátt-stólpi trúin er, tryggilega þarf standa, hjálprædis á, hellunni sá, heitir svo grædir lýda; yfir stein þann, uppbyggdur mann, ecki þarf falli qvída.

3. Gud hefir sjálfur grundvoll þann, gjørt og lagt kristni sinnar, þegar hann gaf oss Gud og mann, af gnægd miskunarinnar, og Jesús dó, upprisinn þó, aptur lifandi sjedur, af englunum og mønnunum, yppursta vegsemd medur.

4. Jesú Kristi upprisa er, undir-rót trúar minnar; eins sem Post-

Postulinn auglýser, ord prédikunarinnar, von og trúin, væri protin, vélud og ónýt bædi, ef Drottinn sá, ei daudum frá, dásamlega uppstædi.

5. Sérhvørr í Jesú sofnadur, sannlega væri taptur, ef hann píndur og andadur, ei hefdi lifnad aptur; á þann Kristum, ef vér vonum, ei nema hér í lífi, øllum má þá, oss aumri tjá, einkum í daudans kífi.

6. Af trú réttlæting ordin er, oss til réttlætis hefur, dýrstur upprisid Drottinn hér; Drottins upprisa géfur; sønnun um þad, sé nú borgad, synda gjald allt, ánægdur, Gud útleiddi af grøfinni, sinn gædsku Son fridþægdur.

7. Kristur vill sína á krossins tré, qvad fullkomnada vera; þad ord trúna med þeim hætte, því má ørugga géra, ad upprisinn, er Frelsarinn, og fyrir sjónir leiddur, af-

máð syndin, eyddur dauðinn, og lifsins vegur greiddur.

8. Ef Jesú Kristi upprisu, einhvorr ei trúa réði, enga huggun né ánægju, enga samvitsku gleði, hafa kann sá, horfinn er frá, himna Guðs lifi besta, líðr skip-brot, við lifsins þrot, lendir í staðnum versta.

9. Trúar hönd mín þér tekur á, eg tilbið hátign þína, Drottinn upprisinn dauðum frá! daglega sálu mína, fysir tign þá, og fegurð sjá, Faðirinn krýnt þig hefur, óformyrkvað, augna-ljós það, unun hjartanu géfur.

10. Qvinnum mætandi qvaddi þær, komnar til grafarinnar, á degi snemma Drottinn skjær, dírðar upprisu sinnar, ótta þeim frá, slö öllum þá, andlegri huggun náðu, lengi veik trú, lifnaði nú, Lausnara sinn tilbáðu.

11. Mitt vesælt líf í verold er vegur til grafarinnar, sífeldt, o Jesú!

Jesú! mæt þú mér, með qvedju náðar þinnar, styrk mína trú, að stødugt sú, stefni á lífsins vegi, sé takmarkið, hefðar-hnossið, høndlað á efsta degi!

12. Líf og upprisa ertú mín, Endurlausnarinn besti! líf fær mín trú af lífi þín, lífgunar-krapt-ur mesti, æðstu þinnar upprisunn-ar, á mér hríni deyjandi! mín síðarsta, mun upprisa, mig þá verða gleðjandi.

## 4. Psálmur.

Jesú upprisa er sannarleg. Lúc. 24, 34.

Lagið er: Faðir vor, sem á himnum ert.

Svo sannarlega sem á kross, Sonur Guðs deyði fyrir oss, svo víst upprisinn er hann nú, á þessu byggist heiløg trú. Thóm-as Postuli' ei trúði um sinn, til eru þó verri dæmin.

2. Þó vér nú augum þessum með, þenna Jesúm ei fáum sjeð,

sælir í trúar sjóninni segjast megum og voninni, lifir um eilífd Lausnarinn, lofadur sé hans krapturinn.

3. Eg held ad sonnu enginn sé, hjá oss þeim sannleik neitande, en ef vor trú kann áreitast, atkérid þarf ad vera fast, vanti lampana vidsmjør á, verda þeir út ad slockna þá.

4. Enginn sjúkdómur eda neyd, eckert mótkast í lífi og deyd, svo stórt tilfalla kristnum kann, ad kunni ei Jesú upprisan, sínum med krapti sigra þad, sannleik hennar því dánnst ad.

5. Af því vid Drottinn erum vér, í Jesú dauda forlíkter, í lífi hans vér egnum þá, enn stærra lífsins frelsi ad ná; upprisu krapt hans allra best, oss ad þeckja því gagnar mest.

6. Dodni vort megn og dofni hold, deyi líkami og verdi mold, upprisa Jesú orka má, oss daud-

anum

annum ad kalla frá; sannleika þann oss sanna ber, ad sønn upprisa Drottins er.

7. Jesú upprisu sønnun sjest, af sønnu spádóms ordi best, hún var fordum tíd heiminum, hulin í fyrirmindunum, sagdi fyrir fram sína trúr, Son Guds upprisu jørdu úr.

8. Sama skíra hans sveinar frá, samt adrir þeir hann fengu sjá, kallar líka sem konurnar og Kristi grafar vaktarar; sannleik englarnir sanna þann, ad Sonur Guds upprísa vann.

9. Fimmsinnum degi fyrsta á, Frelsarinn lét sig heyra' og sjá, framvegis líka fimmsinnum, á fjørutýgir døgunum; tók sú í burt øll tvímælin, tínføld hans auglýsingin.

10. Guddómleiki vors Herra hér, hærstur upprisu vottur er; rotnan kunni ei sá ad sjá, sem heilagur var jørdu á, Guds Son

menn løgdu í grøfina, guddómleg
uppreis persóna.

11. Líkama' og sálar samband-
id, sundursleit daudans of-ríkid,
en persónuleg einíngin, ei mátti
sundrast nockurt sinn. Er persónu-
leg upprisan, upprísa Gud og
madur vann.

12. Upprísa líka Lausnarans,
lítur ad medal-gaungu hans, ann-
ars hefdum ei fengid frid, né fød-
urinn kunnad sættast vid. Krist-
ur leid fyrst og átti inn, eptir þad
gánga í himininn.

13. Sína fyrr enn Guds Son
fól ønd, í síns blessada fødurs hønd,
allt fullkomnad úthrópa réd, sem
afgjørt skyldi hans pínu med;
gégnum daudann til gledi hann,
Guds réttlæti því leida vann.

14. Af svoddan røkum sjáum
vér, sannarlega upprisinn er, Drott-
inn vor Jesús daudum frá; dásemd
enn gjørr ad skoda þá, honum til
lofs

lofs og heidurs ber; hann virdist þar til stjórna mér.

15. Sídarst géf þú mér, sæll Jesú! sjá og reyna ad lifir þú, þegar lífs krapti þínum med, þú opnar svo mitt grafar-bed, ad eg til lífs upprísandi, um eilífd sé þig lofandi.

## 5. Psálmur.

Jesú upprisa sannast af Spádómunum. 1 Cor. 15, 5.

Lagid er: Lisandi Gud þú lít þar á.

Spádóms ord fordum lénad lýd, líkist blysi skínandi; nú er dagstjarnan dáda fríd, dynum hjørtu upplýsandi. Ritníngarnar ransaka ber, réttilega þær finnum vér, oss Jesum afmálandi.

2. Sinnar upprisu sønnun fann, Son Guds í spádóms-greinum, og þær sjálfur útþýda vann, ángrudum Lærisveinum; þá brunnu hjørtu þeirra fyrst, þeir trúdu sídan rétt á Krist, med ástar anda hreinum.

3. Fyrst

3. Fyrsta Guds náðar fyrirheit, fólgið í spádóms orðum, upprisu Drottins um eg leit af Móse ritað forðum: höggorms í sundur haus molar, heilaga sæðið qvinnunnar. Ráð það stóð rétt í skorðum.

4. Margir Spámenn um Messíam, mér Drottins ráð tilkynna; einkum þó hjá Esajam, upprisu hans má finna: að nær sig hafi útgéfið, til offurs fyrir mannkynið, skuli hans líf ei linna.

5. Sami Spámaður segir enn: séu þeir helgidómar, og miskunsemdir allar senn, um Krist sem skriftin rómar, í Guds sáttmála allt staðfest eilíflega svo viðhaldest. Sú forsögn fagurt hljómar.

6. Þessa máls grein, það merkjum vér, og mindugleik skriftanna, helgur Paulus sér hagnýter, Herrans upprisu' að sanna; erfða ríki fékk eilíft sá, upp hlaut því rísa dauðum frá Konúngur Konúnganna.

7. Enn-

7. Endurlausnarans upprisu', um spáir David líka: Herrans náttúru helgustu, hann tjáir orsök slíka, ad mátti ei rotna holdid hans, holdfúa veldur daudlegs manns, edlis ránglætid ríka.

8 Fleiri rök mörg hér finnast til, framsögd í spádóm hreinum; míns Jesú orda' eg minnast vil, mæddum fyrir hans sveinum, hann tjer: Þad á, sem mæltu af mér, Móses, Spámenn og Psálmarner, sannast í sínum greinum.

9. Þitt sannleiks ord, minn sæli Gud! er sannarlegt dýrmæti; gjörvöll þín stjórn er grundvöllud á gódsemd og réttlæti, þú ert húsfadir hærsti sá, heima-menn þína er lætur fá, gamalt og nýtt sælgæti.

10. Öll Guds fyrirheit eru já, í vorum Jesú kjæra, allar hans spár uppfylling ná, af því skyldum vér læra: öllum ad treysta ordum hans, alla snerta þau hagi manns, hreldum mest huggun færa. 11.

11. Svo sem Gud hefir efnt þad allt, er fyrr hét sínum lýdum, eins rætist líka ófallvalt, á hinum seinni tídum, hans ord vora upprisu um, eptir þeim gledi-tímanum, í trausti trú vér bídum.

12. Leid mig, Gud! sannleik allann í, ord þitt svo skilja megi, einnig framleid mig eptir því, á réttum lífsins vegi! géf mér, Jesú! svo þeckja þig, þeckir þú sídan líka mig, á holds upprisu degi!

## 6. Psálmur.

Jesú upprisa sannast af fyrirmindum. Ebr. 11, 19.

Lagid er: Krists er koma fyrir hendum.

Þótt heilög Ritníng rædi, reyndar margt efni um, og oss Guds Andi frædi, med ýmsum frásögnum, af brunni einum flýtur, einn tilgángurinn er, allt til þess eina lýtur, ad Jesum þeckjum vér,

2. Kiarna Ritnínga kalla, Kristum vorn Jesúm má, yndælt skal oss þvi falla, opt þær ad heyra og siá; fórnir forna sattmála frambudu skugga þann, hvørs trúnd sérhvør sála sied fær nú líkamann.

3. Fyrirmindanna fiøldi, fyllíngu hefir sied, er á aldanna qvøldi, offrad Páskalambed; píndur, deyddur, frá daudum Drottinn uppríſa vann, féck oss, svo frelsi af naudum, frid-land og himna-rann.

4. Fyrirmindun fyrst talda, Frelsarans upprisu, eg má vel Adam halda, i skøpunar-verkinu; á jørd lá andar-vana, af jørd mindad hans hold, lífs Andinn líkneskiuna, lífgandi reisti úr mold.

5. Gjørdist Guds Sonur madur, géfinn oss himnum frá, er dáinn og jardadur, eptir holdinu sá; eptir andanum aptur, sig endurlífga vann; oss hans upprisu kraptur, eilíft líf géfa kann.

6. Adra

6. Adra fyrirmind innum, upprisu Drottins þá, er á Isaak finnum, og Paulus vikur á; fødur síns hann í huga, hét daga látinn þrjá, Abrahams trú efluga aptur lífs féck hann sjá.

7. Fyrirmind þridja færist Frelsarans upprisu, úr skordum ei sem bærist, auglýst í Ritníngu: þrjá daga bøl þó bidi, í breidt djúp varpadur, frelsi úr fiskjar qvidi, féck Jónas Spámadur.

8. Hulinn í daudans djúpi Drottinn þrjá daga var, heljar umvafinn hjúpi, í hjarta jardarinnar; aptur í ærn-standi, upprisinn daudum frá, sig á lifendra landi, lét bædi heyra og sjá.

9. Jóseph bar sút all-sára settur í fánga rann, hlaut sídan hefd mjøg klára, hann vard landstjórnar-mann, frá ángist útgángandi, ædsta tignar nafn ber, Jesús jafnan ríkjandi, Jacobs húsi yfer.

10. Bygging musteris mæta, má nefna sídara, (minnd upprisu sæta, vors Endurlausnara; hlaut dírd sá helgi stadur, hinum fyrra af bar. Frelsarinn forkláradur frídari' enn ádur var.

11. Eg hef nóg, eg veit lifir, Endurlausnari minn, mig skal því aldrei yfir, ofhast falla daudinn. Jmind upprisu sinnar, æ sýni Drottinn mér! svo megi' eg gladur minnar, minnast nær lífid þver.

12. J þín herbergi innstu, o Jesú! leid þú mig, mín í nádinni minnstu, mér leyf ad skoda þig, í trúnni á þér taka, ylm klæda finna þinn, sætt í þér sofa og vaka, sálar unnusti minn!

13. O Davíds ættar-blómi, uppá Guds hafinn stól, o Drottins dírdar ljómi! dag-stjarna skjær og sól, o minn Jesú ástkjæri! upprisinn daudum frá, þér eg þakklæti færi, þig prísa, Amen, já!

## 7. Psálmur.

Jesú upprisa fyrirmindud med frumgétningum gamla Testamentisins. Apoc. 1, 5.

Lagid er: Gudi se lof, ad nóttin dymm rc.

Einn frumgétníngur frá daudum er Frelsarinn, af sínum dauda upprisinn.

2. Frumgétnings nafn á fyrri tídum fagurt var, medal Israels ættqvíslar.

3. Atti frumborinn einn tvo hluti í arf taka, mót sínum brædrum samfedra.

4. Einn frumgétníngur eptir fødurs andlátid, tók herradæmi húsins vid.

5. Hann skyldi millum sinna brædra sjálfráda, arfinum líka útskipta.

6. Fødursins kraptur fyrsti, nefnist frumgétinn; svo kallar Jacob Soninn sinn.

7. Til síns frumgétna Sonar ærna elsku bar fadirinn, svo sem vonlegt var.

8. Ast sína Gud til Israel svo votta vann, sinn frumgétníng hann sagdi hann.

9. Pad kjærsta' Egyptskum Drottinn felldi í daudans bad, vóru frumburdir þeirra pad.

10. Allann frumburd, hann eignadi sér uppfrá því; í hans stad sídan einn Leví.

11. Frumgétníngur hét fordum, allt hvad af mjøg var, hvørt heldur gott eda vondt þad var.

12. Ad allrar sképnu frumgétníngs nafn Frelsarinn ber, einkum hans guddóm áhrærer.

13. En þá frumgétinn af daudum, hann er nefndur, mest áviísast hans manndómur.

14. Um hans persónu eru samt þeir ordshættir, bádir í Ritníng brúkadir.

15. Allrar skepnunnar frumburd Jesum játum vér, því fyrri' enn skepnan øll hann er.

16. Enn frumgétinn af daudum nefnast Drottinn kann, af því ad fyrstur uppreis hann.

17. Um sex manneskjur ræda' ad sønnu Ritníngar, ádur frá daudum uppreistar.

18. En enginn slíkra, uppreis þó af egin dád, Lausnarans féck þá lífgad nád.

19. Þeir risu' og upp til þessa lífs, og áttu enn, eitt sinn deyja, sem allir menn.

20. En vor Jesús, af eginn krapti' er upprisinn; deyr aldrei framar Drottinn minn.

21. Einn frumgétníngur af þeim daudu og einn Herra, sinna daudlegu sam-arfa.

22. Guds fyrsti kraptur, elsku Son og erfíngi, arfi dírdar útbítandi.

23. Ad frumgétníngum Guds nú erum gjørdir vér; síst þá virdíngu selja ber.

24. Erfdin er stór, þar sjálfur Gud vor arfur er; arfleyfd hans Sonar erum vér.

25. Nú, lát oss, Drottinn! njóta þess, ad nefnunst vær, brædur þíns Sonar, børn þín kjær.

26. Í lífi og dauda er mín huggun, o Jesú! ad frá daudanum uppreist þú.

27. Mér skal ei daudinn haldid géta, heldur enn þér, gladur eg því í fridi fer.

28. Hólpinn í von og sæll um eilífd segjast má, sérhvørr er trú þig setur á.

29. Med því þá Drottins ættleidíngur eg nú er, himnanna arfleifd hlotnast mér.

30. Veit mér, Jesú! vid von þá lífa og sofna um síd, í dírd upprísa á dómsins tíd!

## 8. Psálmur.

Jesú upprisa fyrirmindud med fimm gróda gamla Testamentisins
1 Cor. 15, 20.

Lagid er; A þer, Herra! hefi' eg nú von.

Horri sáfrædi vidhjálpar, vor Gud, nær fagrar líkíngar, uppá hluti há-mæta, fyrir sjónir, oss framleidir, svo sáum skilníngs gæta.

2. Andi Drottins sitt ordfærid, einatt lagar ad manna sid, og dýrsin leyndar-dóma, svo upplýser ad sjáum vér, sannleikans fagur-blóma.

3. Trúar hlýdnin alleina á, ad medtaka lærdóma þá, er skilníng yfirgánga, svo skyldugur sé hvørr madur sitt hyggjuvit ad fánga.

4. En nær Guds ord svo uppbirter einn leyndar-dóm, ad megnum vér andana gløggt adgreina, skilníng og trú, mátt madur þú, med lærdómi sameina.

5. Enginn heidinn heims-spekíngur, hefir gefist svo forvitur, alls holds

holds upprisu ad þeckti, sálmudu þeir, einn ødrum meir, aumt hyggju-vit þá bleckti.

6. Samt er náttúru ríkid ríkt, rétt margra hluta er votta slíkt, um vídt veraldar stræti, þau furdu-verk, svo mørg og merk, menn þótt sialdan adgæti.

7. Rétt sem af draumi vøknum vér, vid oss nær andinn hræra fer, og upplýsingu géfur; allt slím dregst þá augunum frá, er þau fyrr blindad hefur.

8. Uppá Guds Sonar upprisu, af sád-lands fyrstu korn-skéru, oss Paulus íminnd færir; um sannleik þann yndislegann, ordum þvílíkum tærir:

9. En nú er Kristus upprisinn, ordinn svo þeirra frumgródinn, sem ad sofnadir eru, svo rísa upp þeir, eins sídar meir, í sinni rød og veru.

10. Svofelldt logmál Gud siálfur gaf, sínu fólki, þad skyldi af

landsins fögrum frumgróda, honum ó-tregt, offur árlegt, um sönu mundir bjóda.

11. J Prestsins höndur ávöxt þann, afgreida skyldi hvörr einn mann; en hann honum veifadi, sérhvörja' átt í, og svo med því, sjálfum Gudi helgadi.

12. Allur vard landsins ávöxtur, Jsraels fólki blessadur, eptir offurs-gjörd slíka. Fleiri hluter adhniga hér, hvörra vér gætum líka.

13. A fyrsta degi umgétinn, eptir Páska-dags Sabbathinn, veifunar vidhöfn skédi; sama dag á, vor Drottinn frá, daudum uppstanda rédi.

14. Um heimsins fjórar áttir er, af Drottins þjónum sídan hér, sannleikur sá vídfrægdur, ad upprisinn, er Frelsarinn, og Gud vid heim fridþægdur.

15. Allur Guds nádar ávöxtur, öllum því verdur blessadur, sem offra

offra Drottni einum, allann gróda, Andans gæda, í trú og kjærleik hreinum.

16. Fræ hefir margt í foldarbed fallid, og mikinn ard géfed; en í jörd sér þá sádi, einn Gud og mann, uppspretta vann, öll blessan heimsins ládi.

17. J jurta-gardi Jósephs var, Jesús grafinn, og gjerdist þar, ágætasta uppskéra. Fyrr né sídann, alls enginn vann, akur svo frjófgann bera.

18. Qvíd ei, sann-kristni madur minn! í mold þó sáist líkaminn; vertú' í voninni gladur, sem ávøxtur, al-blómgadur, þú upprís forkláradur.!

19. Þitt hjarta' ef Drottins akur er, og Andans gróda sætann ber, máttu þar æ vid una, þér Frelsarinn, Lífs-foringinn, farsælir upprisuna.

20. O minn Jesú, innplanta mig, aldin-qvist frjófgann svo á

 þig,

þig ad mikinn ávøxt beri! og eilíft líf, eptir heims-kíf, í himna-dírd uppskéri.

## 9. Psálmur.

Jesú upprisa, fyrirsøgd af honum sjálfum. Jóh 2, 18. Matth. 12, 38. 17, 22. Lúc. 18, 31—33.

Lagid er: Jesús Kristur ad Jórdan kom.

Kénniteikn Jesú ástar er, elskendur sína vidur, ad fyrirfram þeim auglýser, allt hvad heill þeirra stydur; einum minna, en ødrum meir, eins og naudþurftin krefur, og borid géta allir þeir, útdeilt pundunum hefur, vor Gud, sem vísdóm géfur.

2. Alla hvad snertir, øllum hann, án manngreinar tilkynnir, sérílagi þó sérhvørn mann, á sína skyldu minnir, ordsqvidu stundum út-talar, optastnær ljóst þó rædir; eptirlíkingar ef brúkar, útskíringu þær gædir. Svo Jesús sín børn frædir.

3. Þegar eidfestum ordum med, eitthvad Drottinn framsetur, oss vill hann hafa uppvaked, ad grunda svoddan betur, svo sem vigtugann sannleika, sem trúar-hlýdni krefur. Efni sama tídt ítreka, ef Jesú þócknast hefur, eptirtekt oss þad gefur.

4. Sannleiks vitni Guds Sonar má sannlega heita meira, enn allt hvad mannleg eyru fá, annarstadar ad heyra. Talad af himni ord hvørt er, á jørd sem Drottinn rædir; himni og jørd þvi heyra ber, hann hvørsu vel uppfrædir, og deyfd andlega grædir.

5. Oss þad gudspjøllin auglýsa, opt Jesús fyrirsagdi, hann ætti deyja' og upprísa, eyd þar vid seinast lagdi; skildist hans sveinunum þó ei þad, þeim var sú hulin ræda; hvørt ser þú! spurdi einginn ad, uppfyllti hjartad mæda, í stad gledinnar gæda.

6. Holdleg ſkynſemi er harla treg,
Herrans ordum ad trúa, frá ſinni
villu á ſannann veg, ſér vill ei
láta ſnúa; nockrir forſmá og laſta
um leid, leidſøgu Drottins Anda,
heimſku ſinnar fram hlaupa ſkeid,
hneixlaſt, treyſtir mótſtanda, ordi
lífſins lifanda.
7. Villtuſt Gydíngar verſt í því,
þeir væntu eins Frelſara, ſem hafa
ſkyldi heimi í, hátign og mekt æ-
vara; ſjálfa vors Jeſú ſveina bad,
ſúrdeig inntekid hafdi, þeir ſucku
því í ſorgar-bad, ſvo þá ørvænting
vafdi, í grøf þá Guds Son tafdi.
8. Þegar Jóhannes línlok leit,
liggjandi í grøfinni, ei fann þó Jeſ-
úm í þeim reit, einkum féll honum í
ſinni: mundi af høndum manna hañ
med leynd burt-tekinn vera; ſkrift-
irnar þá ei ſkilja vann, er ſkyldi hann
ſamanbera, og rétta grein á gera.
9. Stólpar Guds kirkju ſtadfeſt-
íng, ſterkuſtu þurftu hljóta, ſem
báru-

báru hans ord um heimsins hríng, hvörs enn vér fáum njóta. Ad Jesús dó, sáu' ótal menn, yfir því hugann kjættu; en ad hann væri upprisenn, all-fáir lengi sættu, mótt því margir þrættu.

10. Flærd Jesú munni engin í, er fundin nockru sinni; hann er trúr vottur; høfum því hans vitnisburd í minni; nád á hans varir úthellt er, er hunángi sætara, ord hans í hjarta og munni mér, mér skal eckert ljúfara, enn taka á því vara.

11. Segir oss til þess sannleikann, Son Guds, ad honum trúum, óstraffad lídast ecki kann, ef baki ad ljósi snúum; spornum því myrkra v'llu vid, vors Jesú ordin lærum, um morgna, qvøld og middegid, med þeim sálina nærum, ávøxtinn af þeim færum.

12. Eins fyrirsøgn, sem uppfylling, upprisu, Jesú! þinnar, er

míns hjarta endurnæríng, einka líf trúar minnar. Fyrr skulu himnar forgánga, enn falla á jördu kunni, ordin, sem gjördir út-talaz er því skyldt þeim eg unni, þau hafi í minni og munni.

13. Hvad skal mitt stilla harmastríd? hvad daudans sefa qvída? hvør er mín dirfd á dómsins tíd? Drottinn! þitt ordid blída. Mælgi heims víki mér í frá, minnst henni því eg sæti; vardhaldi minn eg stend á, orda míns Jesú gæti, þau eru mitt eptirlæti.

14. Lof sé Gudi, er lét mig sjá, lífs-feril orda sinna, lof, Jesú! sem mig leysti frá, lífs straffi synda minna, lof helgum Anda er lét hjá mér, líf andlegt qvikna, hræraſt; lof þrenníngunni, er svo um sjer, sama líf kunni næraſt, til lífs eilífs framfæraſt!

10. Psálm-

## 10. Psálmur.

Jesú upprisa bodast af Englunum.
Matth. 28, 5. Marc. 16, 5.
Lagid er: Upp, upp mín sál.

Ecki veit eg, hvørt eginleg, englar Guds heiti bera, heil fáa þá, í helgri skrá, heyrt' eg nafngreinda vera; Andar heita, edlis þeirra, er þar vid kénndur blómi; en engils nafn, þeim er samjafn, embættis tignar sómi.

2. Andar Guds þeir, einn ødrum meir, med erindum hans fara, ydjusamer, umfylkja sér útvaldra Drottins skara; samlags þjóna, sanntrúadra, sig vilja nefna láta, Yfir-kóng sinn, einn Jesúm minn, allir tilbidja og játa.

3. Tíusinnum, helst tilnefnum, trúlyndann engla skara, hafa stundad og hátignad, hér á jørd, vorn Lausnara. Sjálfs holdtekning, sídan fæding, Sonar Guds votta nádu. Jóseph prisvar, jafnframt

englar, Jesúm í draumum tjádu.

4. Eptir skjædar yfirunnar, ó-
vinarins freistingar, dýrra engla,
dyggilega Drottni þéntu fylkingar.
Þá við daudann stríð háði hann,
heilags engils styrk þádi; eins steini
er lá á grøf, þar frá engill burt-
kasta nádi.

5. Ráð vísdóms var, að votta
englar vors upprisu Frelsara, og
føgnud þann, frábærastann, fyrst
byrta qvenna skara. Svo hátígna,
sannleiks boda, Syni Guds brúka
hlýddi; sigurs lýsing, sigur-vinn-
ing, Sigrarans þvílík prýddi.

6. Sidarst englar, nær svo ad
bar, Son Guds til himna vendi,
létu sig sjá, ljós-klæddir þá, í Lausn-
arans erindi. Háir vottar, Herr-
ans tignar, hjartans þá ebla kjæti,
ad upprisinn, fyrir almátt sinn, er
vor Frelsarinn sæti.

7. Eru vitrir, Guds englarnir;
ecki kunnu gloggvara, ord lífsins
tjást,

tjáſt, ſem að má dáſt, enn af þeim dírðar ſkara. Er því mín trú, innſiglud nú, uppá þau ſannleiks mœti, að uppriſinn fyrir almátt ſinn, er vor Frelſarinn ſœti.

8. Af náð það var, engla friðar oſs Guð nú ſenda hefur, að boði þeir, einn øðrum meir, orð lífs, ſem nœga gefur ſvølun þyrſtum, ſaðníng øllum, ſem girnaſt það réttlœti, er uppriſinn fyrir almátt ſinn, ávann Frelſarinn ſœti.

9. Allt mannkyn lá, í dauðans dá, Drottinn minn Jeſú blíði, einn bróðurinn ei kunni hinn, úr því að frelſa ſtríði, þá vannſtu oſs þau vœnſtu hnoſs, von lífs og allt ſœlgœti, einn uppriſinn fyrir almátt þinn, Endurlauſnarinn ſœti.

10. Dauf var tíð ſú, Drottinn Jeſú! dauðinn þig lagði' í jørðu, hrœðſlu ſlegenn eg hugſa enn, hvað ſyndir mínar gjørðu; nú ljómar hér náðudum mér, nýrrar gleði ſól

aptur, fyrst upprisinn fyrir almátt þinn ertú, minn lífsins kraptur!

11. Lát engla þín' önd sæla mín, er eg dey, til þín flytja; svá maktar her, sem medur þér mun enn í sky- in vitja, mig uppvakinn, o Jesú minn! æ hægra veg þér leidi; mér þín ásjá á móti þá, miskunar fadm- inn breidi!

## II. Psálmur.

Jesú upprisa vottast af qvinnunum. Matth. 28. Marc. 16.

Lagid er: Gled þig, Guds Sonar brúd.

Drottins upprisu dýrd, af Drott- ins englum skírd, var fyrst qvinnum komandi ad Kristí grøf, sýtandi. Opnadur er lífs vegur, uppreis Jesús dýrdlegur.

2. Eins sjálfur auglýstist upp- risinn Jesús fyrst aumstøddum ýmsum konum, ádur enn Postul- unum. Opnadur er lífs vegur, uppreis Jesús dýrdlegur.

3. Þær

3. Þær litu' hann lidandi, líka framstígandi, grøf hans vidstaddar vóru, vid þad heim grátnar fóru. Opnadur er lífs v., u. J. d.

4. Smyrsli tilbúnggu best, bídandi' um løgmáls frest, árla dags enn hans vitja, adrir um kyrrt þá sitja. Opnadur er l. v., u. J. d.

5. Sá finnur, sem leitar; sinn Jesúm, qvinnurnar fagnandi finna nádu; fregn þá hans vinum tjádu. Opnadur er lífs vegur, u. J. d.

6. Vitska Guds, vor Jesús, veglegt byggdi sitt hús, støpla hjó hagri hendi, hollar þernur útsendi. Opnadur er lífs vegur, u. J. d.

7. Ut til enda jardar ei gengu konurnar, ødrum fyrr út þó báru, upprisu Jesú kláru. Opnadur er lífs vegur, u. J. d.

8. Drottins rád dásamt er, Drottinn lætur veik kér, stólpa Guds kirkju stydja, nær styrks þeir kunnu' ei bidja. Opnadur er l. v., u. J. d.

9. Kon-

9. Konur boda Kriſtum, Kriſti ſjálfs Poſtulum; væn kér vegſemdarinnar, virdíng kynſlódar ſinnar. Opnadur er lífs vegur, u. J. d.

10. Qvenndygda háleitt hrós, hér færiſt í ſitt ljós, þar áſtríkis alvara, er blídlyndi ſamfara. Opnadur er lífs vegur, u. J. d.

11. Þó vída vari rót vanørtud, heiſt og ljót, mørg (frá' eg) mjøg ylmandi millum þyrna rós ſtandi. Opnadur er lífs vegur, u. J. d.

12. Anda Guds úthellt var, opt yfir konurnar, ment, ſpádóm, mørg víſindi, menn trú'eg hjá þeim ſindi. Opnadur er l. v., u. J. d.

13. Gulls nægd og gérſema, Gud lét þeim tilfalla, virdíngar hærſtu hlutu, heil ríkin ad þeim lutu. O. er l. v., u. J. d.

14. Eva braut allra meſt; en þad lagfærdiſt beſt: María vard Guds módir, ſem minn er ordinn bródir. O. er l. v., u. J. d.

15. And-

15. Andlega umskornar, Israels konurnar, páskalambs neyta nádu, nád fyrirheita þádu. Opnadur er lífs vegur, u. J. d.

16. Af konum er tekin, andleg samlíkingin uppá Krists elsku, mædur, unnustur, systur, brædur. Opnadur er l. v., u. J. d.

17. Gód kona er gledi manns, gæfa og æru-krans; hún kann hann hólpinn géra, hennar má ei án vera. O. er l. v., u. J. d.

18. Merkid slíkt, qvenna kyn! kjósid Jesúm ad vin, elsku hans aldrei týnid, elskuna honum sýnid. Opnadur er l. v., u. J. d.

19. Elskid unnusta þann, ydur trúlofadann, út til hans gánginn greidid, greida lampa tilreidid. Opnadur er l. v., u. J. d.

20. Fætur hans frída tídt, fadmandi kyssid blídt, þá hreinum þvoid tárum, þerrid hár-lockum klárum. Opnadur er l. v., u. J. d.

21. Krýp eg med qvinnunum, ad Kristi fótunum; hvörgi mun hann af sinni hrekja mig fótskørinni. Dyn. er l. ɔ., u. J. d.

22. O! Jesú ástríke! önd mín þín brúdur sé, hér þér vid hönd standandi, og hvervetna fylgjandi, í dírd svo uppríſandi, eg sé med þér ríkjandi.

## 12. Psálmur.

Jesú upprisa vottast af hans Postulum. Jóh. 15, 27. Act. 1, 8.

Lagid er: Gjædskurskasti. Grædari minn.

Drottinn Jesús upprisinn er! ødrum fremur Postularner, sannleik þann í ljós leida; engum var bodid-, utan þeim, um gjørvallann ad ferdast heim, ord lífsins út ad breida; Guds nád, góð dád, þeim var lént, sem þókti henta þeirra verki, andlegt stríd hádu Kristis undir merki.

2. Um borgirnar í Israel, erindi nádar fluttu vel, Drot'ins Postular dýrir; undir þá stund, sem uppriſinn, inntók Guds Sonur himininn, aptur heim augljóst skírir, ad þeir, enn meir, jardar venda ættu' ad enda og kunngéra líf hans, og uppriſu vottar vera.

3. Af heiminum sér útvaldi, og vini sína kalladi, vor Drottinn votta slíka; uppljómadir af Andanum, ecki þurftu sig hugsa um, andsvör né ord-gnótt ríka; hreſſar þeſſar, Herrans vóru, hetjur stóru, í hvörskyns raunum, hosdu sjón trúar á himna launum.

4. Þeir fengu Jesú sár ad sjá, sem öll forklárud urdu þá, er hann uppreis af dauda, hans máttu þreifa holdi á, honum eta og drecka hjá, og heyra Hyrdir sauda, gladdir, saddir, Krists med gædum, krapt af hædum, kjærstann fengu, hugstyrkvir sídan um heiminn gengu.

5. Allt

5. Allt ráð Guðs náðar í Jesú, alla verkandi sanna trú, ritað og rædt þeir hafa; í nafni Jesú upprisuna, uppreistu þeir og framliðna; allann aftöku vafa, um þann, ædstann, lífs sannleika, von sem veika, er viðréttandi, upprisinn Drottinn, sé æ lifandi.

6. Guð lagði í sölur Soninn sinn, seldur þræls gjöldum Lausnarinn, oss keypti arfleifð bestu; Jesús úthellti sjálfum sér, sendir vóru Postularner, sem lønið, til varga vestu. Hér má, hvørr sjá, eckert spardi øllu vardi, oss til góða, al-valdur Faðir heims allra þjóða.

7. Oss hefir Drottinn uppbygða, yfir grundvøll Postulanna, hvørn Spámenn løgðu líka; hyrníngarsteinn vor Herra er, sem hvørutveggju samtenger, Guðs húsśstjórn gæðskuríka. Hálm-strá, hér á, hvørr sem breiðir, eldur eyðir, øllu' hans verki; dagurinn vottar þau vegs um-merki. 8. Séf

anna skuld, þeim sjálfum innst í
sjáar djúp varpadi.

6. Var hans uppriśa vottur
trúr, væri lúkt heila gjaldid, géck
því Drottinn grøfinni úr, gat hon-
um daudi' ei haldid.

7. Qvittad var allt med Drott-
ins deyd. Til dirdar lífs blífanda,
auk þessa, tryggva lagdi leid, líf
Jesú uppríśanda.

8. Herleiding fáugna færdi hañ,
féck oss þar hjá til handa, hærri
gjasir enn hugsa kann, hug-vit
skapadra anda.

9. Athuga vildi' eg einnig hér,
og nockud gjørr um ræda: hvorn-
ig forþénti minn Gud mér, marg-
fjøldann slíkra gæda.

10. Adam, skøptum í heidri há,
hlýdni bar Gudi játa, høfud mann-
kyns kann heita sá, hellst í tvø-
faldann máta.

11. Af náttúrunni' erum vér
allir hans børn skilfengin, var og

for-ráda høfud hér, hann vort og annar enginn.

12. Máttum vel njóta, hefdi hann, hlýdninnar gætt, án saka, en fyrst þad brást, vér arfinn þann illa hlutum ad taka.

13. Ord Guds sáttmála, einnig þá, Adam tví-eggjad reyndist, bodi Drottins er féll hann frá, hjá fíkju-trjánum leyndist.

14. Adams synd stærstu meta má, margt flaut þar af andstreymi; hann féll í gjald-sök þyngstu þá, sem þenkjast kann í heimi.

15. Hann þádi Andar mestann mund, mestu líkamans gædi, og allt hvad mátti alla stund, efla hans gledi og nædi.

16. Alíta þetta ega menn, eitt pund, sem verdsla skyldi, unnráda fé, hvors ávoxtenn, einn Drottinn hafa vildi.

17. En hér sóadist allt í senn, ardur og gótsid besta, daudans af-

sagdi

sagdi dómurenn, dró undir straff-
id vesta.

18. Als leigu-fjár med ávexti,
eilíft réttlæti krafdi; Adam sak-
fallinn ør-egi, endurgjald hvørgi
hafdi.

19. Þá skyldi hann lída á lífi'
og sál, líka hans allir nidjar, eilíf-
ann dauda, bruna og bál, beygd-
ur í qvala vidjar.

20. Endurbót kunni enga sjá,
Adam í þessu standi, Drottins
vináttu fallinn frá, fridlaus, nak-
inn, skjálfandi.

21. Pína, madur! hér sjá þú
synd, sjá, hvad stór skuld þig vafdi,
sjá djøfulsins á manni' ómind, mind
Guds, sem tapad hafdi.

22. Sjá! hvad straffid óttalegt
er, eilíflega gnístandi, sjá! hvad
gótt Jesús gjordi þér, gjald þitt
sjálfur lúkandi.

23. Svo þú, sem fyrr varst sek-
adur, saklaus gædist fognudi, ráng-

snúinn ádur réttlátur, reiknast nú fyrir Gudi.

24. Jesús deyjandi, daudann vann, dróst þá burt efni nauda, hans upprisa þér frelsi fann, frá allrahanda dauda.

25. Gjald stærra' enn skuld hér útlagt er, yfirgnæfir synd, nádin, allt meir enn taptir, ávann þér, upprisu Jesú dádin.

26. Hlutdeild í sigri hans þú átt, hann þér líf eilíft gefur, af því sá lifir, lifa mátt, líf sem þér forþént hefur.

27. Ad þetta skéd í sannleik sé, sanna skulum vér fremur; þreföldu offrum þacklæte, þeim sem var, er og kémur.

## 29. Psálmur.

Um sama efni. 1 Cor. 15, 22. Róm. 5, 11. 21. 6, 23. Gal. 2, 20. Jób. 10, 15.

Lagid er: Svo sem fyrr sagt er frá.

Enn skal þar inna frá, alla synda-skuld þá, sem Adam sárt þvíngadi, Son Guds Jesús borgadi. 2.

2. Adams varð edli spillt, hans andleg ráð-deild villt, frá Gudi viljinn flæmdist, fegurð holdsins afskræmdist.

3. Samqvæmt vard sinni manns, Satan og árum hans, Guds rádi gégn stríðandi, gædum sonnum hafnandi.

4. Um miskun enga bad, en bættist hér á þad: synda-skuld sína, ad bragdi, sjálfum Gudi til-lagdi.

5. Sá Gud, mann sekadann, sinn leit á kjærleikann, miskunar ráð til reiddi, ráð vort frá glötun leiddi.

6. Sinn einka Soninn vid, samdi um mannkynid, í borgun ad hann gengi, og því svo bjarg-ad fengi.

7. Í sameining vid sinn, sann-helga guddominn, vort þá, án synda og saka, Son Guds nam edli taka.

8. Hærstum heilagleika, hér mannleg náttúra, aptur í Gudi

gæddist, Gud þá manns holdi klæddist.

9. Vitsku, réttlæti, ráð, ríkdóm og alla dáð, Adam fyrsta frekari, feck hér Adam síðari.

10. Þenna eilífa and, eins og Skaparinn band, Sonur Guðs sæll brúkaði, sitt pund best ávaxtaði.

11. Eins fyrir áfallnár, alls mannskyns skuldirnar, og hinar, enn gjörandi, í borgun sig gefandi.

12. Huldist sok vörri og synd, saklaus føðursins mind, synda bar Guðs Son galla, gjørdur synd fyrir alla.

13. Allt straff Adams syndar, einn Jesús Kristur bar; og leið eilífa pínu, á önd og lífi sínu.

14. Ei þó til eilífðar; af því Guðs fylling var, í honum øll búandi, allt hans verk fullkomnandi.

15. Helgust náttúra hans, hér bætti syndugs manns, eðlis spillíngu alla, alla lagfærði galla.

16. Leið

16. Leid eptir lögmáli, líka þad uppfylldi, allt gjørdi ad Guds vilja, sem á oss rédi' hann skilja.

17. Kristur deyjandi á kross, keypti frá dauda oss, upprisinn, í ljós leiddi líf og veg himins greiddi.

18. Upprisu ávørt sinn, eins og dauda kraptinn, oss til egindóms lætur, Endurlausnariñ sætur.

19. Sjer Gud ei synd þeim hjá, sem nafn hans trúa á, arfs von eilífra gæda, þeir ega, í dírd upphæda.

20. Erum vér ordnir því, upprisunum Jesú í, Guds børn og Guds réttlæti, guddóms þrenníngar sæti.

21. Eins til upprisunnar, og hvørskyns vegsemdar, sinn rétt Sonur Guds hafdi, sáttmálinn þessa krafdi.

22. En hans upprisu dád, oss forþénti þá nád, ad daudann

eckí sjáum, upprisu líffins fáum.

23. Fyrir deyd Drottins er, daudinn vær ordinn mér, í lífi hans lifanda, líf fæ eg æfaranda.

24. Lof sé þér, lífid vort! líffins opnandi port, oss géf, eptir vorn trega, upprisu gledilega!



## 30. Psálmur.

Jesú upprisa er frid-færandi Lúc. 24, 36.

Lagid er: Hvørr sem ad reisir hæga byggd.

Þegar sigurinn unninn er, endpast styr-jaldar mæda, vinning strids nýjann frid færer, fridur er efni gæda, gædunum flestir gledjast menn, gladvært sinni og rósemen, er gjøf vegleg upphæda.

2. Fávitska stærri øllu er, ædstum Gudi ad strída, enginn madur þarf ætla sér, of-dirfd sú kunni hlýda. Pharaóni of-forsugum, fór eins og rauda drekanum; bádir skømm hlutu ad bída.

3. Öll synd, heitir uppreist og strid, mót ædstum lög-gjafara; en vér kunnum oss enga tíd, vid allri synd ad vara. Sá, vid eitt bod Guds sekur er, sig, þeim mañi strax játa ber, allra yfirtrodara.

4. Forskuldadi vor sárleg synd, frid-tjón, útlegd og dauda, uppspratt miskunar oss þá lind, í blodi Jesú rauda; sínu lífi úthellti hann, hérmed frid-keypti syndarann, allt tók burt efni nauda.

5. Upprisinn lýsti frelsi og frid, Fridar-gjafarinn mesti, fridarins Gud er festur vid, fridar-sáttmáli besti, fridur, þeim stódu fridnum nær, fridur þeim líka, er vóru fjær, eyddur ófridur vesti.

6. Jesú upprisu ávöxtur, er fridur Guds blífandi, fridur innvortis andlegur, í samvitsku ríkjandi, útvortis fridur allvída, orkandi fridar-sambúda, á heims ófridar landi.

7. Menn semja á jørdu marg-
ann frid, med þánka fridar-spør-
um, fridar-stuklarans fylgja síd,
fridinn hafandi' á vørum, stríd í
hjarta, vid sídu sverd. Svo er
verøldin ad sér gérd, varlega fram
því førum.

8. Mennirnir tryggann mega'
ei frid, mér géfa af ramleik sín-
um, fá mér ei heldur frátekid, frid
Guds í Jesú mínum; en hans frid-
ur eilífur er, ønd og líkama vard-
veiter, frá synd, svikræði' og pínum.

9. Fridur med ydur sagdi sé,
Son Guds vid lærisveina. Í því
fridarins ávarpe, innibundna eg
meina, alla, sem bodud er sú nád,
øllu fólki skér Guds hjálpråd, í
Syni hans alleina.

10. En ef vér heilsum húsi því,
Herrans frid þar bodandi, sem
barn fridarins ei finnst í, er Guds
fridur víkjandi, med oss sjálfum
því fólki frá. Fridar-hatarar ecki
ná, farsæld á lífsins landi. 11.

11. Þó líf vort sé standandi stríd, styrjøld full lúa' og trega, yfirdynjandi harma hríd, hrakníngur alla vega; hræðist né skélfist hjørtun vid, Herrann Jesús þann bodar frid, er gledur eilíflega.

12. Fridarins Gud! eg þacka þér, þann frid mér veittann hefur, sem hærri skilníng øllum er, ófrid veraldar kéfur; hvadnær sem heimi fer eg frá, frid eilífann, þar treysti' eg á, mér þín miskunsemd géfur.

## 31. Psálmur.

Jesú fridur grundvallast á honum sjálfum, medtekst med trúnni.
Jóh. 16, 33.

Lagid er: Heidrum nú vor Gud af hug' og sál.

Á Jesú lífi' og lídíngu, líka hans dauda' og upprisu, finnst grundvalladur fridur sá, fridkeyptur mañ sem njóta má, á jørdu lýstu honum hér í Herrans fæding' englarner, velþóknan Guds því á oss er.

2. Herr-

2. Herrann Jesús hegníngu bar, svo hefdum frid Guds viuguuar, med síuum deyd frid samdi hann, sama uppristnn boda vann, auglýsandi í sama sinn sín benja ör, því fridurinn allur er þadan útflotinn.

3. Trúin þann frid tileinkar sér, sem tilreiddur af Jesú er, hún fær andlega Herrann sjed, hans þeckir líka málfæred, fridar röddunni fagnar mest, fögnudur sá hellst auglýsest ad þegar stedjar ángur flest.

4. Jesús vor fridur ordinn er, ord fridarins þad tilkynner, fridarins Konúng færir þann, fridar andinn í hjartans rann. Tveim höndum þeirri tekur mót trúud sála med ástar hót, sinna mañrauna réttu bót.

5. Heilsa stærsta skér húsi því, sem Herrans fridur byggir í, allt rýmist þar hid íla frá. Ei býr Kristur Belíal hjá, solin myrkrid ei samþýdist, slíst fær öeyrd med fridnum víst, lestina dygdin fráfælist.

6. Frid-

6. Fridar uppspretta' er Frelsarinn, fridinn hefir oss géfid sinn, fridinn verndar og framqvæmir, med fridnum börn sín varveitir. Fjøllin þó hræristfyrna há, foldunni bærist hædir á, úr stad ei færist fridur sá.

7. Uppruna sólar er menn sjá, upprisa Drottins líkjast má; fridar bodunar held eg hans, háa ímind, þann sunnu-glans, sem allann heiminn upplýser, yndi, næríng og varma lér, rírnar þó ei í sjálfum séc.

8. O! hvørsu fridt olíu-blad, er sá fridur! hellst sanna þad, þeir sem hafs-bylgjunn heimsins á, hrekjast, sveymandi til og frá. Mjög þá í stridi mátt-dregnir, mædast taka Guds kapparnir, þetta hunángid þá nærir.

9. J sínum guddóms algjørdum, ei birtist Jesús kraptinum, fyrr' enn sigur-hróss fridinn sinn, hann

hann færdi' á jördu, upprisinn.
Þá skein fram eldur skþ-stólpans,
þá skipti' um hagi daudlegs mans,
líf og fridur, vard hlutdeild hans.

10. Oss er med lísi Lausnarans,
lífsins vegsemdar géfinn krans, and-
leg, líkamleg, eilíf náð, allt hvad
bætir vorn hag og ráð. Gud her-
skaranna oss núer, einn fridar Gud,
því megum vér bidja, og verduni
bænheyrder.

11. Hvad nær, sem nockrar hreisa
sér, í hjarta minu sturlauer, mig
ef heimsækir meinleg sótt, mikill
qvídi vid daudans nótt; mildasti
Jesú! mig ásjá, mér vertú nærst,
og segdu þá: minn fridur, sé þér
med og hjá!

## 32. Psálmur.

Jesú upprisu fridur er kraptur og
áminning innbyrdis fridar. Lúc. 24,
49. 53. Act. 1, 14. 2, 1. Jóh. 14, 27.

Lagid er: Nú bid eg Gud! þú nádir mig.

Oss-

Oskadi fridar upprisinn, ástvinum sínum Drottinn minn, hriggvum bodandi hugstyrking, hrœddum vid strid, sigurvinning; fridur med ydur, sagdi hann, sé! til samlyndis uppvekjande, gaf þeim undir eins afl og náð, ad stunda hvǫlikt fridar ráð.

2. Lifs og deyjandi Drottinn minn, frá daudum lika upprisinn, fridsemd ástunda alla bad, eitt nýtt bodord kallandi þad, af því ávǫxtur Andans sá, sem elska' og fridur heita má, œ meir og meir þá eldast fór, yfirdrepskapur gjørdist stór.

3. Kristi nýtt þar nœrst kalla má kjœrleiks bod, fyrir orsǫk þá, ad hann vill ferskt þad ávallt sé, í voru sinni og framferde, svo af innbyrdis elsku-rót, útvortis sjáist skirlegt mót, hvort þú fridsamur, hjarta hreinn, Herrans sért réttur lœrisveinn.

4. Í hjarta mannsins hreinskilinn, hefir sinn bústad fridurinn; sá yfir honum sífellt bjó, sífelda þar af hafdi ró; sælir eru þeir semja hann, sáttir vid Gud og náúngann; þeir munu' í fridi fara og ná, fridarins gædum himnum á.

5. Hvar af orsakast stór og straung styrjöld þjódanna mørg og laung? ardur er þad, þótt íllur sé, óvinarins af sád-verke. Þráttun girndanna í limum ljót, leidist af fyrstu synda rót. Ofridsamur, íllur og þver, eins og brúsandi hafid er.

6. Líkari Satan enginn er, enn sá madur, sem temur sér kíf og deilur, er farga frid, fárlegt er þann ad búa vid; sig þó hann skadi sjálfann mest, samt er hann átumein og pest í Krists líkama andlegum; opt koma menn ad raun þar um.

7. Qvedst ei vilja mann kíffsamann, Kóng Davíd halda' í sínum rann. Ljónum og bjørnum líkir hér lifa

lifa óeyrdar menmirner. Ofund, drambsemi, ágirnd vest, innbyrdis fridinn skadar mest, margur held eg þó meini þær sér muni' ódygdir standa fjær.

8. Folskadur kjærleiks eldur er, ecki mjøg vída finnum vér Kristi sinni hjá kristnum nú, þó kunni' ad játa rétta trú; áverkirnir auglýsa þad, menn ýfast nær á hvørjum stad. Fáist varla trúr vinurinn, vart elskar nockurr fjandmann sinn.

9. Ein sál og hjarta ádur var, í kristni Guds; nú túngurnar ofvída' í høfdi eru tvær. Af tvøfølduðu sinni fær einfaldur laungum fróm-ur flas, full er verøld med hræsni' og þras. Hreint skapa, Drottinn! hjarta' í mér, hellst er, sú ininnd samqvæm þér.

10. Talid sannleik, Guds trúader! til þess fridkeyptir erud þér. Hatid lygar, hræsni og slægd, hafnid vondskunnar allri gnægd,

sem-

semjid innbyrdis sannann frid, þeim sama jafnan haldid vid; einn bjargi limur ødrum rétt, eins og Gud hefir þad tilsett.

11. Zíon Veit þú, Gud! sæmd og frid, svo hún þitt hjálpräd gledjist vid! réttlæti, fridur, rósemd mest, ríki vors Kóngs umgyrdi best! høfud-stéttir og herra-menn, hér med gjørvallur almúgenn, lifi í fridi og leysist frá, lifi, samfagni himnum á!

12. Nær sem einhvør áfellur mig, ófridar bára hættulig, í þitt fridar-skjól flý eg inn, Frelsarinn Herra Jesú minn! hastir þú æsta hafid á, hljódnar þad brádt og sjatnar þá, svo eg megi af fári frí, fridar høfn lífsins komast í.

13. Í þínum fridi, o Jesú! unun hefir mín von og trú, eg sofna á qvøldum sætt þar vid, sé eg í þínum geymdur frid, aptur ad morgni uppvakinn, upprisu frid-

inn

inn hugsa eg þinn. Jmind holds-
ins upprisu þá, á sjálfum mér eg
líta má.

## 33. Psálmur.

Jesú upprisa er grundvöllur og kraptur
vorrar endurfæðingar. 1 Pét 3, 21.

Lagid er: Lof se þer, Gud! fyrir lidinn dag.

Daudur líkami og dádlaus er, þá
dregst í burt hans andi, ecki
neitt heyrir eda sjer, ei tilfinníng
hafandi, eta né drecka ei kann sá,
engrar gladværdar njóta, né hress-
íng hljóta, andstyggilegur á ad sjá,
erfir forrotnum skjóta.

2. Andlega daudur er sá mann,
sem Anda Guds ei hefur, andlegu
sæta engu kann, sem andar þörf-
in krefur, skurd-godum líkur, skyn
ei ber, skortir heyrn, vit og sinni,
málfæri og minni, andlega birtu
ecki sjer, klæddur forsmáninni.

3. Lýsíngu þessa Adam á, og
hans topudu nidjar, lifandi er
daud-

daudur sérhvørr sá, sem vilja Guds
ei ydjar. Frá þeim dauda, um
eilíf ár, uppstanda neinn ei kunni;
í ytsta' afgrunni áttum ad líða
feikna fár, fyrrtir lífs upprisunni.

4. Þegar svo daudir vórum vér,
von lífs enga hafandi, í vort qvala-
bad søckti sér Son Guds Jesús lif-
andi, daudans sinackadi beiskju' og
bøl, hans bitra fleini særdist, frá
fjørvi færdist, uppreis sídan frá all-
ri qvøl, afl daudans þá fortærdist.

5. Lífsins upprisa' og sigur sá,
sem Jesús afrekadi, er sá kraptur,
sem orka má, ad enginn daudi' oss
skadi. Fyrstu' og sídurstu oss nú er
upprisu gledi fengin; einn undan-
genginn lífsins hertogi leidbeiner
til lífs, en annar enginn.

6. Vor endurfæding er þad hlid,
um hvørt nú gánga fáum, út frá
daudlegra synda sid, svo lífi Guds
vér náum. Andlegu lífi lifnadir,
lífs gædanna dýrmæti, allt eptir-
lœti

læti finna og smacka fáum vér, fagnandi því sælgæti.

7. Þeim til fridinda eckert er, er í synd liggur daudur, ljótustu hluta líking ber um loptin, votu og haudur; en hinn, sem risinn upp er frá andlegum dauda, fridur er ljóssins lýdur, finnst honum vansi enginn á, eilíf fegurd hans bídur.

8. Í endurfæding verdum vér, vors Guds arf-gengir synir, trúin þar verkud í oss er, af því nefnunst hans vinir; fyrir lífs kraptinn Frelsarans, frá daudum uppríssandi, og æ lifandi, í lífsins von, þann egum krans, sem aldrei fer visnandi.

9. Hlutskipti besta held eg sé frá heljar myrkri' ad færast, til ljóss Guds nádar ljómande, og lífsins braudi nærast. Drottinn! sem líf mér léntir þitt, og létst andlitid skína, yfir eymd mína, líkama og andar lífid mitt legg eg í voktun þína. F 34. Psálm-

# 34. Psálmur.

Jesú upprisa er grundvøllur vorrar réttlætingar. Róm. 4, 25.

Lagid er: Hærsti Gud Heira mildi.

Fyrir oss gjald allt greiddi, Guds Son deyjandi' á tré, Herrañ þvi hann útleiddi, af heljar gryfjunne. Nú fyrst vér egum alla, upprisu Jesú dád, á oss þarf aldrei falla, ógn þeirra synda galla, sem bætti hans blessud nád.

2. Allri synd af oss létti, aflausn fullkomin sú; í Herrans hærsta rétti, heitir fríkénndur nú, sérhvørr er setur hreina sína trú Jesúm á, syndanna sárra meina, sá fær lækníngu beina, sæll og heill segjast má.

3. Akløgun ei svo verdi útvøldum færd á mót, réttláta Gud þá gérdi, grandar þeim ecki hót, fordæmíng fjandmannanna, fyrst Kristur dáinn er, og hvad mest er hlut-

hlutanna, uppreis, fór til himnanna, œ bidur oss fyrer.

4. Handskrift hardri fortœrdi, hana negldi á tréd, myrkra vøld forn af-fœrdi, frœgasta sigri med, alla synd innsiglandi, oss svo ei tilreiknist, uppreis, líf afrekandi, útløgum Guds bodandi, frid og fødurlands víst.

5. Løgmálid lífsins Anda (lýst hefir Paulus þvi) Jesú uppríssanda, oss gjørir synda frí; en hvar synd er burt-tekin, er þar lífs réttlœtid; hljóta þá holdsins brekin, á hœl ad verda rekin, fyrir Guds fulltíngid.

6. Vér Guds réttlœti verdum; vel er oss fyrirsjed! œru þá aldrei skérdum, ofdirfd sjálfs þotta med; ef mœttu einhvør heita, af oss gjørd verkin nýt, ei þó skjól orka ad veita, í þeim síst megum leita, athvarfs; þau eru ei hlýt.

7. Aldin-blad ei féck dulid, Adams blygd fyrsta sinn; nú fœr oss

Herrans hulid, hjálprædis mött-
ullinn. Kristi réttlætis klædi, kostu-
legast sem er, hefir tvenn hefdar-
gædi, hylur og prýdir bædi, þann
er sig því skrýder.

8. Staddir í stríði erum, stund
þá hér höfum bid; Herrans því
hervopn berum, hans bidjandi um
lid. Réttlætis brynja, bestur brjóst-
varnar styrkur er; bana broddur-
inn vestur, bítur ei þó sé hvestur,
þann sem hlíf þessa ber.

9. Frelsi, líf, frid, hjálprædi,
sögnud, réttlæti, nád, öll lífs og
andar gædi, ávann oss Jesú dád;
vor er því von lifandi, vér skul-
um danda frá, upprisa í æru-standi,
og á gledinnar landi, Herrann vorn
heyra og sjá.

10. Fáklæddi frómi madur,
Frelsarans réttlæte er þinn innri
fatnadur, ond þín qvídandi ei sé,
nakinn kom hér í heiminn hvörr
einn, svo líka fer, vird hægt ver-
aldar

aldar seiminn, vertú þess skrúda geymiñ, sem keypti Son Guds þér.

11. Sá skrúdi á sídsta degi, svo hylur nakleik þinn, sjer á þér annad eigi alskygni Dómarinn, enn sitt egid skínandi, upprisu réttlætid, heims skraut í hefdar standi, hér þó sýnist glansandi, eckert skyldt á þar vid.

12. Høfud upphefja megum, høfum Gud blídkadann, líf í vorn eilíft egum, arfinn senn tøkum þañ; krónu Kristí réttlætis, kristnum sem vardveitt er, med himinsælda sætis sóma mestum ágætis, Gud! af nád géf þú mér!

## 35. Psálmur.

Jesú upprisa er kraptur og áminning vorrar endurnýúngar. Róm. 6, 4—11. Col. 3, 1.

Lagid er: O Jesú! nafn þitt ylmsætt er.

Þoss framqvæmist allt í senn, endurfæding, réttlætingen, og

helgun uppbyrjandi; má þó sá nýi
madurenn, meir æ fara varandi.

2. Strax sem líf andlegt í oss
er, af Anda Drottins verkad hér,
hræring sína þad hefur, sífelldt
varandi sídan fer, svo sem Gud
mæling géfur.

3. Med endurfæding allrafyrst,
í oss þá Kristur mindadist, líka
trúin lifnadi, vor réttlæting þá
verkadist, vor ný hlýdni byrjadi.

4. Sú trú, lifandi sem ad er,
sínar hefir æ verkaner, afl hennar
Andinn veitir, allar dygdir sér af-
fæder; undir-rót þeirra heitir.

5. Eckí eru trésins ávexter, á
augabragdi tímgader, sína tíd sér-
hvad hefir. Fullburda strax ei fóstr-
id er, framvort því tíminn géfur.

6. A lífs tréd Jesúm, erum vér,
í endurfæding plantader, ávoxt
þann egum færa, sem ad verdug-
ur ydrum er, allar dygdir svo
næra.

7. Ef

7. Ef vín-trénu innplantadur, einhvørr finnst qvistur skrælnadur, eflaust affníðast hlýtur, í eldsins bál útsnaradur, ei fremur ræktar nýtur.

8. J skírn, til dauðans verðum vér, með vorum Drottni greptr-aðer, að síðan alla vega, líka sem hann upprisinn er, endurnýunst daglega.

9. Oss má ei sóma, upprisnum, eitt sinn af synda dauðanum, í hañ aptur að detta. Réttlætis skjæra skrúðanum, skonum er stór sig að fletta.

10. J Jesú dauða deyjum vér, daglega með honum krossfester, allri synd afneitandi, svo af hans lífi lífgader, lifum í náðar standi.

11. Dáinn syndinni Drottinn minn, af dauðanum er upprisinn, og deyr framar alldreji, lífs kraptinn hefir lént mér sinn, svo lifa Gudi' eg megi

12. Líf til þess andlegt lénad var, ad lífs verkanir andlegar, sýni sann-kristinn madur. Í lífi andlegu uppbyrjar, eilíft líf rétt-trúadur.

13. Í anda gánga øllum ber, med ótta og titrun sína hér sálu-hjálp sífelldt vinna, lifir høfudid, limirner láti sig dauda ei finna.

14. Mind Guds ef blómgast í oss á, ad Jesú dœmi, skulum þá, vaxa í vitsku' og nádum, ávexti láta andans sjá, í góds sidferdis dádum.

15. Frá einni dygd til annarar, í himininn þitt sinnis-far, æ sé þér upplyptandi, upprisinn Jesús þinn er þar, þángad stefn hans leitandi.

16. Andleg þíns hjarta umskurn þá, innileg vera og sífelld má, ef þig skal ecki svíkid, gomlu forbúdar girndin fá, og Guds lífi frávikid.

17. Tapadir synir vórum vér, frá vors Guds lífi steindauder, nú

þó

þó uppvaktir aptur. Til nýrrar hlýðni oss nógur er, náðar framboðinn kraptur.

18. Látum oss Drottni lifa þá, løstum fyrst dauðir gømlum frá, nýja lífs njótum blóma. Au helgunar kann enginn sjá, eilífrar dírðar ljóma.

19. Upprisa' og líf vort, o Jesú! á þér hvorr sá sem hefir trú, aldrei deyr eilíflega; fyrir þitt líf oss forða þú, frá andar dauðans trega.

20. Lífsins uppsprettan lifandi, lífið andlegá geymandi, oss lát þér aldrei sleppa, líf náttúrlegt framleiðandi, líf eilíft géf oss hreppa.

## 36. Psálmur.

Meðteiling heilags Anda er ávøxtur Jesú upprísu. Jóh 20, 22. 16, 7.

Lagið er: Jesús Guðs Son eingetinn.

Sá sem veit, að Guðs Andi er sannur Jehóva, og Jesús upprísandi, oss gaf þann huggara,

gledjast í Gudi ætti, Guds nafn
af øllum mætti, hér fyrir hátignd.

2. Í þeim áverti ædsta, upp-
risu Lausnarans, er heilsugjøfin
hæsta, og hjálpræd syndarans,
andlegs lífs allt sælgæti, unun,
fridur, réttlæti, huggandi hjarta
manns.

3. Ef eg fer ecki hédan, ei kém-
ur huggarinn; (svo þenna sann-
leik tjedann, sjálfur féck Lausnar-
inn.) En ef eg er farandi, á burt
mun eg sendandi, hann verda í
hjørtun inn.

4. Upprisinn, sína sveina síd-
ar talandi vid, á þá blés, og nam
greina: Anda Guds medtakid! þá
upplaukst þeirra hjarta, þeim ram
ljós skilníngs bjarta, þádu føgnud
og frid.

5. Vard Andi Kristi vara, med
vara-blæstri hans, hans sveina
helgum skara, hér nú géfinn til
sanns; en hin var ecki fjærri, út-
helling

helling hans sú stærri, af hædum himna ranns.

6. Andann meddeila mátti, í mæling stærstu hér, Jesús, sem alla átti, Andans fylling í sér. Krafdi krapta-verkanna, kristni-bod Postulanna, sem verk Guds Anda er.

7. Uthelling Andans stærsta, audkénni tilsett var upprisu Drottins ædsta, og hans himin-farar. Andans gjøf fyrri eigi, almenna kalla megi, ord Guds mér ávísar.

8. Klæddust þeim krapti af hædum Kristi sendi-bodar, er í allskonar mædum, einn þeirra styrkur var, þá frœddi, þá huggadi, þeirra lífs hlaup verndadi, í þeim Guds ord frambar.

9. Fyrirheit fødurs heitir, fagnadar Andi sá, og skjæra vatn, sem veitir, vor Gud, þurr-lendid á, eldur hugást qveikjandi, og børn Drottins hreinsandi, synda saurindum frá.

10. Andans' eldlegu 'gjafir og hans frum-gróda nú, þótt, madur! þú ei hafir, þína ei sakar trú; ef hann þér er stjórnandi, í og med þér bidjandi, eilíft líf erfir þú.

11. Guds hús ef ordinn ertú, Andi hans býr þér hjá, øruggur æ þess vertú, um þig hirdir hann þá, leidir þig lífs á vegi, lætur þig villast eigi, fót-sporum Jesú frá.

12. Hann þig fávísann, frædir, fráviktinn, leidrétter, af syndum særdann, grædir, sorg-þjádann, hugstyrker, mátt-førnum megn þér veitir, máttar Andi því heitir, hjá þér allstadar er.

13. Hryggjum ei Herrans Anda, hann svo oss víki frá; hann er lífsins lífanda ljós, sem ei slockva má. Ytstu útskúfun bída, þeir Anda Guds mótstrída anglit hans aldrei sjá.

14. Gud minn! þinn góda Anda, géf mér, en tak ei frá, hann lát

ec hjá mér standa, hvad sem tilfalla má, hann lát best hag minn greida, hann lát mig svo framleida, ad lendi eg þér hjá!

15. Lífsins eilífi Andi, arfleifdar pantur minn! á Jesú upprísandi, eg sje lífs kraptinn þinn; hann kénn mér, Herra! ad nefna, til hans heimleidis stefna, hédan í himininn!

## 37. Psálmur.

Jesú upprísa, verkar lifandi von.
1 Pét. 1, 3. Eph. 1, 18—20.
Lagid er: Strídsmenn þá hefdu krossfest Krist.

Von, heitir eflaus eptirbid, þess augum nú ei sjá, órugga trú skyldt á hún vid, og þar grundvallast á, þolgædid stendur henni á hlid, svo hvörgi skeika má; er hún þad trygga atkérid, sem enganum slítur frá.

2. Vonin lifandi af því er, ad lífsins rádandi fyrir lífs Anda og ord sitt hér, er hana verkandi, líf

 sitt

sitt og edli auglýser, innra mann gledjandi, vid lífsins unir vissu sér, verdur þess njótandi.

3. Í von oss hólpna meta má, medan hér høfum bid, vonin full-komnud verdur þá, vér fáum arf-skiptid; af því vor Drottinn dauð-um frá tdírd féck upprisid, von lífs um eilífd honum hjá, himneskann eignast frid.

4. Jesú upprisa' og líf oss lér, lífsins von alla nú, svoddan huggun géfst, sál mín! þér, svo hólpin verdir þú, ad hvørr sem lifir honum hér, honum deyr líka' í trú, eilífann dauda aldrej sier, óbrygdul von er sú.

5. Fordum vonudu frómir men̄ Frelsarans komu' í heim, Ísraels ríkis upphefden einkum hugfestist þeim; hulid var flestum hitt þá enn, hann um veraldar geim, mundi eitt sauda-hús í senn semja af flockum tveim.

6. Sú

6. Sú von fylltist þá SonGuds kjær sig birti' í manndómi, Ritníngar allar rætast þær, sem ræda' um þad efni. Hins nú framvegis væntum vær, vor Jesús blessadi senn muni koma' í skýjum skjær, skrýddur vegsemdinni.

7. Lífsins von oll þar leikur á, lifir vor Frelsari; vér skulum lifa' og sídar sjá sæld hans í dírdinni; húngur, klædleysi, þreyngíng, þrá, þetta líf né daudi, ecki fær skilid oss því frá ypparsta hlutskipti.

8. J lífs eilífs von lifum vér, lídandi' í heiminum, í lífs eilífs von fram oss fer, fetandi' á Guds vegum; í lífs eilífs von brádt ad ber, blómgandi tídunum; í lífs eilífs von líf ef hver, ljómandi upprísinn.

9. Vona of margir veröld í, vegsemd fá henni af. Ei leidi' eg hug minn eptir því, sem er leyrvellta og draf. Krónur og sprotar; fara'

fara' ei frí, flárædis yfir haf, Þann í gjær heimur hóf vid ský, hratt þeim í dag á kaf.

10. Eg sný, lifandi Lausnarinn! lífs von minni heim frá, eg flý þurfandi', í fadminn þinn, fridi svo kynni ná, eg bý hjarandi ó-gvíðinn, undir þinni forsjá, eg kný deyjandi, Drottinn minn! dyr nád-arinnar á.

11. Hafid, lopt, jörd og himinarner, heidri þig, Jesú minn! allur prísi þig engla her, sem er þér handgenginn, magni fridkeyptu mennirner, med þeim lofstýrinn þinn, mikli þig sála mín, í þér minn gledjist lífs andinn!

## 38. Psálmur.

Jesú upprisa er í daudanum vor ædsta huggun. Jóh. 11, 25. 26. 2 Cor. 4, 14.

Lagid er: Bú þig, sál mín!

Bú þig, sál mín! brádt kémur þín burtferdar stund frá heimi, daud-

daudinn fyrer dyrunum er, vill Drottinn þér, stytta nálægt andstreymi.

2. Lifna, fædast, lýjast, mædast, lengi margir þreyandi, endar lífs stríd, útfarar tíd, þeim ætíd blíd, sem er Jesú deyjandi.

3. Raust fyrsta hér vor allra er, inni verøld þá færumst, ángursamt vein, ýmisleg mein þad auka qvein í holdi medan bærumst.

4. Ef líf óþreytt einatt og heitt áskin medlætis-sólin, bruna hætt er, ber og til hér ad bilta sér brádlega luckuhjólin.

5. En þá margar mjøg stórfelldar mótgángs ádynja hrídir, drýpur húsid, dofnar sinnid, dregst út fjørid daglega, og allt um sídir.

6. Hvilikt sem hér ástandid er, endíng þvi daudinn gefur; nú óvin þann afli fyrrtann, undirlagdann sér og oss Son Guds hefur.

7. Misti smeckinn hann megna sinn, Mara, en litinn eigi. Daudinn nafu ber, burt øll frá þér hans beiskja er, barn Guds! þó hold þitt deyi.

8. Sætur, vær, hann svefn nefnast kann, sigur lífs, hvíld af lúa, ávinníngur, lífs inngángur æskilegur øllum þeim Jesú trúa.

9. Var daudans hér nú dagur er degi fædíngar betri, vel til géds þá mér vera á, ad víkja frá hrørlegu holds adsetri.

10. Ef upprisinn ei Lausnarinn af dauda sjálfur væri, í daudanum øllum mønnum útskúfudum um eilífd liggja bæri.

11. Geginu undan, Guds Sonur fann, gégnum deyd, lífsbraut sanna; eptir honum, strax upprisnum, úr grøfunum, útgéck stór flockur manna.

12. Lífs upprisu, Krists líkíngu, lýdir trúadir hljóta, í von þegar,

en

en þó sídar algjørlegar, eilífrar sælu njóta.

13. Fyrst upprisinn lífs-leidtog-inn, lifir í hjarta þínn, sætt and-látid, sálin gledst vid, í sønnum frid, sæl, laus frá allri pínu.

14. Eitt med Jesú, þú ert í trú, innræt þér huggun slíka; upp-reis hug þinn, uppreis Drottinn; fyrir almátt sinn, uppreisir hann þig líka.

15. Lét lífid sitt, þá leysti þitt, Lamb Guds, og sitt tók aptur; eins dauda frá, þig eflaust má út-færa sá, hans al-voldugi kraptur.

16. Í daudanum, fyrir augun-um, engin skélfíng þér slædist, lítur trúin, þann lífs-salinn, hvar Lausnariñ, ljósinu' um eilífd klædist.

17. Endíng sút fær, þá ondin nær, inngaungu' í himnaríki, stund er ei laung, né þúngleg þraung, um grafar-gaung, greidist før þínu líki.

18. Í

18. Í Canaan þarf ecki Man, øll finnast þar land-mæti. Í himninum, þig upprisinn, sem inntekinn, eilíft mettar sælgæti.

19. Ei fatnadar, munt þurfa þar, þar Jesús skjólid veitir; er líkaminn, andlegur þinn, ædsta dírdin, yfir-klædid þá heitir.

20. Vanheilsa frá, sér vendar þá; í vegsemd upprísandi, líkaminn fær, stól lambsins nær, ljómandi skjær, líta Gud ævarandi.

21. Geym huggun þá, Guds barn! þér hjá, gégnum veg allra nauda: Son Guds því dó, sem lifir þó, ad fæt lífs ró sé þitt hlutskipti' í dauda.

22. Í þeirri trú eg dey, Jesú! úr jørd munt hold mitt færa. Lyst hef' eg á ad leysast frá og lifa hjá Lausnara mínum kjæra.

23. Lífgjafi minn! lífs kraptinn þinn lát mig sjá, þeckja' og reyna; greid mitt lífs skeid, gjør enda' á neyd,

neyd, géf mér í deyd, gódi Jesú! trú hreina.

## 39. Psálmur.

Jesú upprisa er kraptur alls holds upprisu, Act. 17, 18. 31. 24, 15.

Lagid er: O! Fadir himneski' og eilífi Gud.

Uppris, mitt hjarta! med elsku og trú, upprisinum fagnandi þínum Jesú, upprisan fyrsta þér er géfin nú, upprisu lífsins senn fær þú.

2. Ad deyja mönnunum eitt sinni ber, eikin þar liggur, sem fallin hún er, upprisa' og dómurinn eptirfylger, adgæt slíkt medan þú lifer.

3. Sædid í jördunni senn deyja má, sídan fær nýtt líf og sprettur upp þá; hold og blód Guds ríki erfa ei á, útvaldir deyja því hér frá.

4. Svo víst sem Guds Sonur upprisinn er, uppris af daudanum madur sérhver. Ljóslega Paulus þann lærdóm kénner, Lausnarinn sama stadfester.

5. Jes-

5. Jesús og upprísan er sameinad; upprísu verkinu sinn eg þann stad, á Kristi upprisu er þad grundad, af honum verdur fullkomnad.

6. J skýjum himinsins setja nun sinn, Son mannsins komandi tignar-stólinn, þeytist med háreysti þar lúdurinn, þá rísa' upp mannanna børnin.

7. A þeirri daganna endingu siest, allt hvad í myrkrunum fyrri duldest, hvørr Drottni þjónadi hér í trú best, hans eda vanrækti bod mest.

8. Allir sem dóu þá upprísa menn, í sinni radan, en skilsmunurenn, millum afdrifanna mun þó ærenn; mørg verda leidd til þess roken.

9. Upprísu børnin strax uppí loptid, ad Jesú hægri þá verda færd hlid, á hann þau blídasta orda-stad vid, innleidir sídan í Guds frid.

10. Sú lífsins uppriſa áſtúdleg er; ætlud er hún, madur sannkriſtinn! þér, um hina ránglátu ødruvís fér, upp þó þeir rísi ſem hiner.

11. Fordæmíng þeirra ſkén fyrirfram var, ſlutti ſál daudinn til qvala-ſtadar; uppríſa ſlíkir til ytſtu ſmánar, æ gjalda vantrúar ſinnar.

12. Forblindar Satan þá fráſnúnu þjód, Frelſarans uppriſu gjørir ad hnjód, forſmáir Guds nádar frambodinn ſjód, fetar ſvo gløtunar á ſlód.

13. Holdſins ad uppriſa ecki til ſé, er þánki gudlauſra ſkadlegaſte, Drottins ad réttlæti draga þeir ſpé, Drottins því banar þeim reide.

14. Og þó ſtraff þeirra fram ei komi hér, óſarſæll daudi þá hrífur med ſér, upp til dóms ríſa þar úrſkurdader,. útlagar Guds ríkis tapter.

15. En

15. En þeim sem trú-gódir um-
fadma sinn upprisna Frelsara,
verdur daudinn, lausn frá armædu,
til lífs vegur inn; lif og dey, Guds
vin! ógvídinn.

16. Af því þú lifandi, lifir ei
þér, lífid þér deyjandi, Guds Son-
ur er, hann þig uppreisandi heidri
krýner, himnasæld gledjandi med sér

17. Sætt er ad vakna af svefni
værum, sól líta dírdar í himna-
skýjum, útgánga ljómandi úr grøf-
unum, unnusta fagnandi sínum.

18. Géf mér, o Jesú! ad girnast
þar á, géf mér ástunda því hlutfalli
ná, géf mér lífs upprisu gledi ad fá,
géf mér þitt andlit í dírd sjá!

## 40. Psálmur.

Jesú upprisu vegsemd er eilíf. Ap. 1, 18. Róm. 6, 9.

Lagid ér: Syrgjum vjer ei sáluga brædur.

Í forklárun upprisu sinnar, inn-
gengin til vegsemdarinnar,
sìd

sid og ár vor Lausnari lifir, lifi' og dauda rádandi yfir.

2. Aldrei þrýtur eilífdar dagur; eiliflega á Guds stóli fagur, situr Drottins sæll dírdar ljómi, sól réttlætis, himinsins blómi.

3. Lausnariñ med limina fridu, lagdur fordum spjóti í sídu, sára ørin sín øll skínandi, sifelldt ber á himnum ríkjandi.

4. Sál vors Drottins, sama ad bragdi, sem hann hana deyjandi' afl agdi, eilífrar naut annars heims sælu, í Paradís himins yndælu.

5. Þær hans Andar yppurstu dírdir, engar þoldu fyrir þad rírdir, sálunni þó samtengdi aptur, sinn líkama' hans gudlegur kraptur.

6. Allt vald Jesús upprisinn hafdi; en Guds nádar rádstøfun krafdi, hefjast uppá hásætid skyldi, hann fyrr' enn þad allt brúka vildi.

7. Ending stánd hans nidrunar nádi, nafn og vegsemd eilifa þádi,

eilíft ríki, endalaust veldi, í hans hondur Fadirinn seldi.

8. Stjórnar mátans alleina endir er þad, þá hann ríkid afhendir, allt í ollu ávallt þó blífur, einn vegsemdar Kóngur eilífur.

9. J trú Jesú ef vér hér lifum; útleiddir frá daudans adsvifum, allrar hvíldar í honum njótum, upprisuna farsæla hljótum.

10. Ønd þín, Guds barn! eilífann frama útgengin af daudans líkama, strax í Drottins hondunum hlýtur, himnaríkis farsældar nýtur.

11. Krists upprisnum líkama líkur, líkamiun med sálunni víkur, af jord vakinn, einnig til hæda, eilífra þar njótandi gæda.

12. En ef lifir, allra þá kémur endíng hluta, Drottinn þig nemur, þó umbreyttann, þessu frá kífi, þig gledur med eilífu lífi.

13. J himinsins ypparstu sælu og Guds dírdar skodun yndæl

er þad stærst, hún aldrei kann þrjóta,
eilíflega má hennar njóta.

14. Allir menn þó sam-tídis sjái
sólina' og nóg ljos hvør fái, dapr-
ast þar vid ei þad heims auga,
allra gledir jafnt sjónar bauga.

15. Aldrei ljóssins arfur kann
þrjóta, allir fullrar hlut-deildar
njota, allañ Gud sinn eignast hvørr
madur, útvalin á himnum blessadur

16. Hér af skér, ad enginn øfund-
ar, annann þar, né meira tilstund-
ar, enn í Gudi um aldir ad sedjast,
andlitis hans sjón vid ad gledjast.

17. Stjarna í fegurd stjørnu
þótt vinni, stendur hvør í rød bestu
siñi; útvaldra þó megi glans muna,
mun hvørr sinu hlutskipti una.

18. Engla líking útvaldir tignast,
í Guds dóma medur þeim skygnast,
Drottins ástar djúpid ad grunda,
Drottni hjá um eilífd þeir stunda.

19. Eilíf sæla oss er tilbúin, ad
því hnossi leidir sig trúin. Í þá

dírd, sem ecki nú sjáum, inn senn gánga, børn Drottins! fáum.

20. O Jesú! sem uppris̄inn lifir øllum hlutum rádandi yfir, veit oss dug í von lífs af-þreyja vora stund, og sætlega deyja!

21. Dírdlegur upp, Drottinn! rís-andi, dírdlegur í hæd varst farandi, dírdlegur munt dauda vekjandi, dírdlegur þíng efsta haldandi.

22. Kom! gledjandi kristnina þína, kom! sedjandi lífsins girnd mína, kom! leidandi Kedars frá tjøldum, kom! greidandi launin útvøldum!

23. Sigur-ljód skal fagn-andi færa, fridkeypt þjód heims Lausnara kjæra, føgur hljód, med streingja-leik slæra, stundud gód svo verdi hans æra.

24. Dírd sé þér, minn Drott-inn! strídandi, dírd og heidur yf-irvinnandi, sómi, kraptur, sigri hrósandi, sífeldt lof um eilífd rík-jandi!

---

# Tveir Psálmar,

## útlagdir af sama.

### I.

### Prudentii Psálmur.

Jam mœsta qviesce qverela.

Harma-tolur hvíli ad sinni, haldid mœdur! tárunum inni! ofmjøg børn sín enginn má gráta; endurbót lífs daudann eg játa.

2. Hvar til skulu holadir steinar? hvar til grafir snotradar hreinar? efni lánad er þeim, sem reyníst, ecki daudt, þó sofandi leyníst.

3. Líkama þó lítum nú audann, liggja' í dái, manns-vitsku snaudann, skilníngs-vit hans, aptur upphæda innan stundar samvistir gæda.

4. Skjótt øld kemur, skundar þá aptur, í skinin beirin hlýr edlis kraptur, lífgad blód þau fulleykur fjori, fyrri madur tjaldbúd svo beri.

5. Or-þrota ádur sem láu, í jörd lík rotnud, stór, smáu, fljótt í loptid færd munu verda,| fyrr tengdri ondu samferda.

6. Sagn-þurr svo grænka sád-fræin, gjor-daud í jörd nidur lægin, foldar djúps þau framleidir kraptur, á fyrri líkum korn-staungum aptur.

7. Nú til geymslu, þú jörd! skalt þyggja, þenna mann og mjúkt-skaut í leggja, hans andvana limu þér ljæ eg, leifar dýrar í vöktun sæ eg.

8. Sú var gæfin sál af Guds munni, sem nær þessi fyrr hýsa kunni, vænn í bádum vel herbergjadi vísdómur, þeim Kristur stjórnadi.

9. Hér laadann, hyl jörd! líkama, heimtir aptur Skaparinn sama, sinna gjafa sjálfur hann minnist, sins andl tis mind vidurkynnist.

10 Ad nær skeidar atridi tída, alla syllir Drottinn von lýda, mind þá, sundrud, aptur átt færa, er eg gjori, fold! þér nú tæra.

## II.

# Ove Mallings Psálmur.
## Um Guds alvitsku.

Lagið er: Náttúran öll og eðli manns.

Sál! dupti klædd, ei sómir þér, sveyma um straum lastanna; dómarinn sem í upphæd er, allar sjer gjördir manna, öll augum hans, eru hjartans opin fylsni hvört sinni; ond saurug má, ei búa hjá, alskjæru hátigninni.

2. Drottins al-skygnu augum frá, enginn kann hælis leita, vinds og elds-lnaa vængjum á, þó vildi flótta þreyta; ecki neinn þann, umflýja kann engill, stóra Skapara, er tilbjó heim, og í þeim geim, á öllu tekur vara.

3. Farir þú lengst sem felur sýn, sjær enn himin-ljós starta, og þókt bólfesta yrdi þín, undirdjúps myrkrid svarta, ei stadur sá, þú flýdir frá, sjær enn hinn, sem þú nádir, Guds hátign er, sem gjörla sjer, hvar gjörast þessir bádir

4. Eilíft Guð! þig enginn má, umsjja glæpa maður; mun eg orðýlnast ega þá, og deyja svo glataður? o nei! þín náð, ædra gaf ráð, ørugg svo trúin standi: fyrir þinn Son, í fullri von, sæ eg mí skun biðjandi.

5. Nú flý eg því á náðir þín, nauðstaddur vesæll maður, eg finn og játa afbrot mín, er fyrir þér skélkaður, heims biltingar, mig hræda ei þar, hjá þér ef blíðu mæri; en reidist þú, allt fellur nú í grunn mannsins drambleti.

6. Ordsnápur mælir ósvífinn: „er „Guð í hæð búandi, hástól hjá engl„um setti sinn, sætir ei mínu standi, „hann sier ei það, sem hefst eg að, „hvar smá-qvikindið bærist." Vilt, dári þú! svo væri nú, en vit, þín ôst forðærist.

7. Fyrr' enn uppkomu fjöll á jörð, og flóðu lækir dala, áður enn ljósin urðu gjörð, og duptið heyrdist tala, fyrr enn andar, sætt súngu þar, sem þeim

var

var fenginn stadur; sá Gud, Þad Þú, Þar sem ert nú, Þenkir og talar, madur!

8. Uppi býr Gud med Engla her, er Þó hjá Þrælum synda, dirdar glans undir eins hann sjer, og skuggann smá-qvikinda, sem sólu hann, sjá stærstu kann, svo lítur jardar salla, Þess sem smærst er, afdrif eyger, eins og heimsins gjör-valla.

9. Vakinn og sofinn ofund í, er Gudi leidur madur, ágjørn mauranna eru Þý, hans augna reidi-stadur, bleck-ja sist hann, bljúg hræsni kann, ne bruggun haturs ráda, hann sjer atvik, Hamans og svik, hans alla stærd ó-dáda.

10. Blygdast Því, myrkra vesæll vin! vef Þig ei bondum syndar! aflegg hræsninnar yfir-skin, augu skopud, sem blindar! meina ei Þad, Þann megir stad, hvar mátt einn heita, finna, eilíft hjá Þér, alla stund er, athafna vitni Þinna.

11. Heyr þú! vanvirda manna mest, megnum glæpum qvoladur, of=frekju þinnar ending vest, er sjandans qvala=stadur, áqvedinn þinn, óttast dóminn, ádur enn stadar nemur, þar allt hvad hér, illa gjorder, á þig sannad framkémur.

12. Ending tímanna er oss nær, adstedjar daudans nóttin, eckert hæli þá frekjan fær, flóttann þó reki óttinn; aumur er sá, ei fyrri enn þá, audmjúkur vildi sanna: Guds hefndin er, sem gjorla sjer, gáng og athafnir manna.



